# ALTNORDISCHES

# LESEBUCH

VON

Dr. FRIEDRICH PFEIFFER,
PRIVATDOZENT AN DER UNIVERSITÄT ZU BRESLAU.

---

TEXT. GRAMMATIK. WÖRTERBUCH.

---




LEIPZIG.
T. O. WEIGEL.
1860.

# VORWORT.

*Mit dem vorliegenden buche mache ich den anfang zur verwirklichung eines planes, den ich seit jahren verfolge und dessen ausfürung wie ich hoffe dazu beitragen soll, eine recht fühlbare lücke in der bücherreihe der deutschen philologie auszufüllen. mir wenigstens ist es immer aufgefallen, dass wir bei so vielen treflichen werken unserer wissenschaft noch so wenig brauchbare lehrbücher besizen, die es dem anfänger weniger schwer machen, in das wesen der einzelnen deutschen sprachen einzudringen. zwar gibt es wol auch handbücher und leitfaden, aber sie sind entweder zu oberflächlich gearbeitet und lassen die meisten fragen des lernenden unbeantwortet, oder bei allen vorzügen so umfangreich und kostspielig, zum teil auch in fremder sprache abgefasst und so schwer zu erlangen, dass der rechte nuzen, den sie schaffen könten, nur zur hälfte erreicht wird. ich habe diesen mangel bereits als student erfaren, und fast noch empfindlicher trat er mir entgegen, als ich selbst vorlesungen hielt und für meine zuhörer nur mit mühe die nötigsten bücher zusammenzubringen vermochte. dass bei diesem übelstande der deutschen philologie verhältnismässig nur wenig neue freunde gewonnen werden können, liegt auf der hand.*

*In wie weit nun ich im stande sein werde diesem mangel zu begegnen, muss ich freilich der zukunft anheim geben; versichern aber darf ich, dass ich mir meine arbeit nicht leicht gemacht und mit meinem willen nichts versäumt habe, was mein buch recht nuzbar machen kann. ich habe mit dem deutschen dialekte begonnen, der mir bis dahin am meisten vernachlässigt erschien; ich konte damals nicht anen, dass wärend des druckes der vorliegenden schrift zwei unabhängig von einander bearbeitete bücher erscheinen würden, die für das altnordische änliches bezweckten wie ich: 'Analecta Norroena von Möbius' und 'Die Edda von Lüning'; doch wird hoffe ich auch mein buch, das in mancher beziehung von ihnen abweicht, nicht ganz unwilkommen sein.*

*Ich habe darüber folgendes zu bemerken. für die texte war mein bemühen dahin gerichtet, möglichst gleichmässige schreibart durchzufüren. ich sah keinen grund von der einmal durch Rask und Rafn eingebürgerten schreibweise abzuweichen; nur habe ich æ und œ geschieden und z, das kein nordischer buchstab ist, stets in seine bestandteile aufgelöst; dass ich ausserdem die länge in der durch Grimm eingefürten und für alle deutschen dialekte angenommenen weise bezeichne wird mir niemand verdenken. leider haben sich im texte eine anzal von versehen vorgefunden, die ich dem buche gern erspart hätte; ich habe sie alle*

*verzeichnet und bitte, die besserungen vor dem gebrauche einzutragen und sie wie manche andere unebenheit damit zu entschuldigen, dass ich wegen entfernung des druckortes nur die zweite durchsicht besorgt habe; sinnstörend sind nur wenige.*

*Für die grammatik habe ich alle mir zu gebote stehenden hilfsmittel benuzt; es brauchte nicht erst erwänt zu werden, dass namentlich J. Grimms deutsche grammatik und die werke von Rask und Munch überall zu rate gezogen worden sind; doch wird der kundige bald finden, dass ich mich stets bemüht habe, wo es sich tun liess meinen weg selbständig zu gehen.*

*Auf das wörterbuch habe ich den grösstmöglichsten fleiss gewant, und ich wünsche von herzen, dass alle im buche vorkommenden ausdrücke ihre erklärung finden. solte doch einiges vermisst werden, so habe ich nur um freundliche nachsicht zu bitten. die ausarbeitung des ganzen buches fällt in eine für mich sehr trübe und unruhige zeit, die mir nur sehr selten die musse gewärte, in der allein dergleichen arbeiten recht freudig gedeihen können.*

*Die anmerkungen sind bestimt, über schwere stellen hinwegzuhelfen oder eine von mir gemachte änderung zu rechtfertigen. für die stücke aus der älteren Edda habe ich ausserdem sämtliche abweichende lesarten angefürt, weil ich sie nirgends zusammenfand und ich es für gut halte, wenn der schüler gelegenheit hat selbst zu prüfen. literarische nachweisungen zu geben hielt ich nicht für nötig, da durch den catalogus librorum Islandicorum von Möbius bereits bestens dafür gesorgt ist. was ich für meinen text nicht benuzen konte ist gleichfalls in den anmerkungen zu finden.*

*Die folgenden bände des deutschen lesebuches, nach denselben grundsäzen bearbeitet wie der vorliegende, sollen in möglichst kurzen zeiträumen nachfolgen; vorbereitet sind sie seit längerer zeit.*

*Und so sei denn das buch den lehrenden und lernenden bestens empfolen.*

*Breslau den* 8. *Januar* 1860.

*Friedrich Pfeiffer.*

# INHALT.

# GYLFAGINNING.

1. Gylfi konungr réð þar löndum er nú heitir Svíþjóð. frá honum er þat sagt, at hann gaf einni farandi konu at launum skemtunar sinnar eitt plógsland í ríki sínu þat er fjögur öxn drægi upp dag ok nátt. en sú kona var ein af Ása ætt, hon er nefnd Gefjun. hon tók fjögur öxn norðan or Jötunheimum, en þat váru synir jötuns ok hennar, ok setti þá fyrir plóg; en plógrinn gékk svá hart ok djúpt, at uppleysti landit, ok drógu öxnin þat land út á hafit ok vestr ok námu staðar í sundi nökkuru. þar setti Gefjun landit ok gaf nafn ok kallaði Sælund; ok þar sem landit hafði uppgengit varð eptir vatn þat er nú Lögrinn kallaðr í Svíþjóð, ok liggja svá víkr í leginum sem nes í Sælundi. svá segir Bragi skáld gamli:

1. Gefjun dró frá Gylfa
glöð djúpröðulöðla
svá at af renniröknum
rauk Danmarkar auka;
báru öxn ok átta
ennitungl þar er géngu
fyrir vineyjar víðri
valrauf fjögur höfuð.

2. Gylfi konungr var maðr vitr ok fjölkunnigr. hann undraðist þat mjök, er Ásafólk var svá kunnigt, at allir lutir géngu at vilja þeirra. þat hugsaði hann, hvárt þat mundi vera af eðli sjálfra þeirra eða mundi því valda guðmögn þau er þeir blótuðu. hann byrjaði ferð sína til Ásgarðs ok fór með laun ok brá á sik gamals manns líki ok duldist svá. en Æsir váru því vísari, at þeir höfðu spádóm, ok sá þeir ferð hans fyrr en hann kom ok görðu í móti honum sjónhverfingar. en er hann kom inn í borgina, þá sá hann þar háva höll svá at varla mátti hann sjá yfir hana; þak hennar var lagt gyltum skjöldum svá sem spánþak. svá segir Þjóðólfr hinn hvinverski, at Valhöll var skjöldum þökt:

2. Á baki létu blíkja
(barðir váru grjóti)
Svafnis salnæfrar
seggir hyggjandi.

Gylfi sá mann í hallardurunum, ok lék at handsöxum ok hafði sjau senn á lopti; sá spurði hann fyrr at nafni; hann nefndist Gangleri ok kominn af refilstigum ok beiddist at sœkja til náttstaðar ok spurði, hverr höllina ætti. hann svarar, at þat var konungr þeirra; 'en fylgja má ek þér at sjá hann, skaltú þá sjálfr spyrja hann nafns'. ok snérist sá maðr fyrir honum inn í höllina, en hann gékk eptir, ok þegar laukst hurðin á hæla honum. þar sá hann mörg gólf ok mart fólk, sumt með leikum, sumir drukku, sumir með vápnum ok börðust. þá litaðist hann umb ok þótti margir lutir útrúligir þeir er hann sá. þá mælti hann:

3. 'Gáttir allar
áðr gangi fram
umskygnast skyli;
þvíat óvíst er at vita,
hvar úvinir sitja
á fleti fyrir.'

hann sá þrjú hásæti ok hvert upp frá öðru, ok sátu þrír menn sinn í hverju. þá spurði hann, hvert nafn höfðingja þeirra væri. sá svarar er hann leiddi inn, at sá er í hinu neðsta hásæti sat var konungr ok heitir Hár, en þarnæst er heitir Jafnhár, en sá ofarst er Þriði heitir. þá spyrr Hár komandan, hvárt fleira er örindi hans, en heimill er matr ok drykkr honum sem öllum þar í Háva höll. hann segir, at fyrst vill hann spyrja, ef nakkvarr er fróðr maðr inni. Hár segir, at hann komi eigi heill út, nema hann sé fróðari,

4. 'ok stattú fram
meðan þú fregn;
sitja skal
sá er segir.'

3. Gangleri hóf svá mál sitt: 'hverr er æðstr eða elstr allra goða?' Hár segir: 'sá heitir Allföðr at váru máli, en í Ásgarði hinum forna átti hann tólf nöfn. eitt er Allföðr, annat er Herran eða Herjan, þriðja er Nikarr eða Hnikarr, fjórða er Nikuðs eða Hnikuðr, fimta Fjölnir, sétta Óski, sjaunda Ómi, áttanda Bifliði eða Biflindi, níunda Sviðarr, tíunda Sviðrir, ellifta Viðrir, tólfta Jálg eða Jálkr.' þá spyrr Gangleri: 'hvar er sá guð eða hvat má hann eða hvat hefir hann unnit framaverka?' Hár segir: 'lifir hann of allar aldir ok stjórnar öllu ríki sínu ok ræðr öllum lutum stórum ok smám.' þá mælti Jafnhár: 'hann smíðaði himin ok jörð ok loptin ok alla eign þeirra.' þá mælti Þriði: 'hitt er mest, er hann görði manninn ok gaf honum önd þá er lifa skal ok aldri týnast, þótt líkaminn fúni at moldu eða brenni at ösku; ok skulu allir menn lifa þeir er rétt eru siðaðir ok vera með honum sjálfum þar sem heitir

Gimli eða Vingólf. en vándir menn fara til Heljar ok þaðan í Niflhel, þat er niðr í hinn níunda heim.' þá mælti Gangleri: 'hvat hafðist hann áðr at en himinn ok jörð væri görr?' þá svarar Hár: 'þá var hann með Hrímþussum.'

4. Gangleri mælti: 'hvat var upphaf eða hversu hófst eða hvat var áðr?' Hár svarar: 'svá sem segir í Völuspá:

5. Ár var alda
þat er ekki var;
vara sandr né sær
né svalar unnir;
jörð fannst eigi,
né upphiminn,
gap var ginnunga,
en gras ekki.'

þá mælti Jafnhár: 'fyrr var þat mörgum öldum en jörð var sköpuð, er Niflheimr var görr; ok í honum miðjum liggr bruðr sá er Hvergelmir heitir, ok þaðan af falla ár er svá heita: Svöl, Gunnþrá, Form, Fimbul, Þul, Slíðr ok Hríð, Sylgr ok Ylgr, Víð, Leiptr, Gjöll er næst helgrindum.' þá mælti Þriði: 'fyrst var þó sá heimr í suðrhálfu er Muspell heitir, hann er ljóss ok heitr svát hann er logandi ok brennandi; er hann ok úfœrr þeim er þar eru útlendir ok eigi eigu þar óðul. sá er Surtr nefndr er þar sitr á landsenda til landvarnar; hann hefir loganda sverð, ok í enda veraldar mun hann fara ok herja ok sigra öll guðin ok brenna allan heim með eldi. svá segir í Völuspá:

6. Surtr ferr sunnan
með sviga lævi,
skínn af sverði
sól valtíva;
grjótbjörg gnata,
en gífr rata;
troða halir helveg,
en himinn klofnar.'

5. Gangleri mælti: 'hversu skipaðist áðr en ættirnar yrði eða aukaðist mannfólkit?' þá mælti Hár: 'ár þær sem kallaðar eru Elivágar, þá er þær váru svá langt komnar frá uppsprettunni, at eitrkvikja sú er þar fylgði harðnaði, svá sem sindr þat er renn or eldinum, þá varð þat íss, ok þá er sá íss gaf staðar ok rann eigi, þá héldi yfir þannig úr þat er af stóð eitrinu ok fraus at hrími, ok jók hrímit hvert yfir annat, allt í Ginnungagap.' þá mælti Jafnhár: 'Ginnungagap þat er vissi til norðrs ættar fyltist með þunga ok höfugleik íss ok hríms ok inn í frá úr ok gustr; en hinn syðri lutr Ginnungagaps léttist móti gneistum ok síum þeim er flugu or Muspellsheimi.' þá mælti Þriði: 'svá sem kalt stóð af Niflheimi ok allir lutir grimmir, svá var þat er vissi námunda Muspelli heitt ok ljóst. en Ginnungagap var svá hlætt sem lopt vindlaust, ok þá er mættist hrímin ok blær hitans svá at bráðnaði ok draup, ok af þeim kvikudropum kviknaði með krapti þess er tilsendi hitann, ok varð manns líkandi, ok var sá nefnr Ýmir, en Hrímþussar kalla hann Örgelmi, ok eru þaðan komnar ættir Hrímþussa, svá sem segir í Völuspá hinni skömmu:

7. Eru völur allar
frá Viðólfi,
vitkar allir
frá Vilmeiði,
en seiðberendr
frá Svarthöfða,
allir jötnar
frá Ými komnir.

en hér segir svá Vafþrúðnir jötunn:

8. hvaðan Örgelmir kom
með jötna sonum
fyrst hinn fróði jötunn:
9. Þá er or Elivágum
stukku eitrdropar
ok óx uns or varð jötunn.
þar eru orar ættir
komnar allar saman;
því er þat æ allt til atalt.'

þá mælti Gangleri: 'hvernig óxu ættir saman þaðan eða skapaðist svá at fleiri menn urðu eða trúir þú þann guð er nú sagðir þú frá?' þá svarar Hár: 'fyr engan mun játum vér hann guð, hann var illr ok allir hans ættmenn; þá köllum vér Hrímþursa; ok svá er sagt, þá er hann svaf fékk hann sveita; þá óx undir vinstri hönd honum maðr ok kona, ok annarr fótr hans gat son við öðrum; en þaðan afkomu ættir, þat eru Hrímþursar. hinn gamli Hrímþurs hann köllum vér Ými.'

6. Þá mælti Gangleri: 'hvar bygði Ýmir eða við hvat lifði hann?' 'næst var þat þá er hrímit draup, at þar varð af kýr sú er Auðhumla hét, en fjórar mjólkár runnu or spenum hennar, ok fœddi hon Ými.' þá mælti Gangleri: 'við hvat fœddist kýrin?' Hár segir: 'hon sleikti hrímsteinana er saltir váru, ok hinn fyrsta dag er hon sleikti steinana, kom or steininum at kveldi manns hár, annan dag manns höfuð, þriðja dag var þar allr maðr; sá er nefndr Buri. hann var fagr álitum, mikill ok máttugr; hann gat son þann er Börr hét. hann fékk þeirrar konu er Besla hét, dóttir Bölþorns jötuns, ok fengu þau þrjá sonu. hét einn Óðinn, annarr Vili, þriði Ve; ok þat er mín trúa, at sá Óðinn ok hans brœðr munu vera stýrandi himins ok jarðar; þat ætlum vér, at hann muni svá heita; svá heitir sá maðr er vér vitum mestan ok ágætstan, ok vel megu þeir hann láta svá heita.

7. Þá mælti Gangleri: 'hvat varð þá um þeirra sætt eða hvárir váru ríkari?' þá svarar Hár: 'synir Börs drápu Ými jötun; en er hann féll þá hljóp svá mikit blóð or sárum hans, at með því drektu þeir allri ætt Hrímþursa, nema einn komst undan með sínu hyski; þann kalla jötnar Bergelmi; hann fór upp á lúðr sinn ok kona hans ok héltst þar, ok eru af þeim komnar Hrímþursa ættir svá sem hér segir:

10. Orófi vetra,
aðr væri jörð sköpuð,
þá var Bergelmir borinn.
þat ek fyrst ofman

er sá hinn fróði jötunn
á var lúðr oflagiðr.'

8. Þá svarar Gangleri: 'hvat höfðust þá at Börs synir, ef þú trúir, at þeir sé guð?' Hár segir: 'eigi er þar lítit af at segja. þeir tóku Ými ok fluttu í mitt Ginnungagap ok görðu af honum jörðina, af blóði hans sæinn ok vötnin; jörðin var gör af holdinu, en björgin af beinunum, grjót ok urðir görðu þeir af tönnum ok jöxlum ok af þeim beinum er brotin váru.' þá mælti Jafnhár: 'af því blóði er or sárum rann ok laust fór þaraf görðu þeir sjá þann er þeir görðu ok festu saman jörðina, ok lögðu þann sjá í hring útan um hana, ok mun þat flestum manni úfæra þykkja at komast þaryfir.' þá mælti Þriði: 'tóku þeir ok haus hans ok görðu þaraf himin ok settu hann upp yfir jörðina með fjórum skautum, ok undir hvert horn settu þeir dverg, þeir heita svá: Austri, Vesri, Norðri, Suðri. þá tóku þeir síur ok gneista þá er lausir fóru ok kastat hafði or Muspells heimi, ok settu á miðjan ginnungahimin bæði ofan ok neðan til at lýsa himin ok jörð. þeir gáfu staðar öllum eldingum, sumum á himnum, sumar fóru lausar undir himni, ok settu þó þeim stað ok sköpuðu göngu þeim. svá er sagt í fornum vísindum, at þaðan af váru dœgr greind ok áratal svá sem segir í Völuspá:

11. Sól þat ne vissi,
hvar hon sali átti,
máni þat né vissi,
hvat hann megins átti,
stjörnur þat ne vissu,
hvar þær staði áttu.

svá var áðr en þetta væri of jörð.' þá mælti Gangleri: 'þetta eru mikil tíðindi er nú heyri ek; furðu mikil smíð er þat ok hagliga gört. hvernig var jörðin háttuð?' þá svarar Hár: 'hon er kringlótt útan, ok þar útan umliggr hinn djúpi sjár, ok með þeirri sjávarströndu gáfu þeir lönd til bygðar jötna ættum; en fyri innan á jörðunni görðu þeir borg umhverfis heim fyrir úfriði jötna, en til þeirrar borgar höfðu þeir brár Ýmis jötuns ok kölluðu þá borg Miðgarð. þeir tóku ok heila hans ok köstuðu í lopt ok görðu af skýin svá sem hér segir:

12. Or Ýmis holdi
var jörð ofsköpuð,
en or sveita sjár,
björg or beinum,
baðmr or hári,
en or hausi himinn.

13. En or hans brám
görðu blíðregin
Miðgarð manna sonum;
en or hans heila
váru þau hin harðmóðgu
ský öll ofsköpuð.'

9. Þá mælti Gangleri: 'mikit þótti mér þeir hafa þá snúit til leiðar, er jörð ok himinn var gört ok sól ok himintungl váru sett ok skipt dœgrum; en hvaðan kvámu mennirnir þeir er heim byggja?' þá svarar Hár: þá er þeir Börs synir gêngu með sævarströndu, fundu þeir trè tvau ok tóku upp trêin ok sköpuðu af menn; gaf hinn fyrsti önd ok líf, annarr vit ok hrœring, þriði ásjónu, málit ok heyrn ok sjón; gáfu þeim klæði ok nöfn: hèt karlmaðrinn Askr, en konan Embla, ok ólust þaðan af mannkindir, þeim er bygðin var gefin undir Miðgarði. þar næst görðu þeir sér borg í miðjum heimi er kallat er Ásgarðr, þat köllum vèr Trója. þar bygðu guðin ok ættir þeirra, ok görðust þaðan af mörg tíðindi ok greinir bæði á jörð ok í lopti. þar er einn staðr er Hliðskjálf heitir, ok þá er Óðinn settist þar í hásæti, þá sá hann of alla heima ok hvers manns athœfi ok vissi alla luti þá er hann sá. kona hans hêt Frigg, Fjörgvins dóttir, ok af þeirra ætt er sú kynslóð komin er vèr köllum Ása ættir, er bygt hafa Ásgarð hinn forna ok þau ríki er þar liggja til, ok er þat allt goðkunnig ætt. ok fyrir því má hann heita Allföðr, at hann er faðir allra goðanna ok manna ok alls þess er af honum ok hans krapti var fullt gört. Jörðin var dóttir hans ok kona hans; af henni görði hann hinn fyrsta soninn, en þat er Ásaþórr; honum fylgði afl ok sterkleikr, þaraf sigrar hann öll kvikvendi.

10. Nörvi eða Narfi hêt jötunn er bygði í Jötunheimum; hann átti dóttur er Nátt hêt; hon var svört ok dökk sem hon átti ætt til. hon var gipt þeim manni er Naglfari hêt, þeirra sonr hêt Uðr. því næst var hon gipt þeim er Annarr hêt; Jörð hêt þeirra dóttir. síðarst átti hana Dellingr, var hann Ása ættar; var þeirra sonr Dagr; var hann ljóss ok fagr eptir faðerni sínu. þá tók Allföðr Nátt ok Dag son hennar ok gaf þeim tvá hesta ok tvær kerrur ok setti þau upp á himin, at þau skulu ríða á hverjum tveim dœgrum umhverfis jörðina. ríðr Nátt fyrri þeim hesti er kallaðr er Hrímfaxi, ok at morni hverjum döggvir hann jörðina af meldropum sínum. sá hestr er Dagr á heitir Skinfaxi ok lýsir allt lopt ok jörðina af faxi hans.'

11. Þá mælti Gangleri: 'hversu stýrir hann gang sólar ok tungls?' Hár segir: 'sá maðr er nefndr Mundilföri er átti tvau börn; þau váru svá fögr ok fríð, at hann kallaði son sinn Mána, en dóttur sína Sól, ok gipti hana þeim manni er Glenr hêt. en guðin reiddust þessu ofdrambi ok tóku þau syskin oð settu upp á himin, lètu Sól keyra þá hesta, er drógu kerru sólarinnar þeirrar er guðin höfðu skapat til at lýsa heimana af þeirri síu, er flaug or Muspellsheimi. þeir hestar heita svá: Árvakr ok Alsviðr, en undir bógum hestanna settu guðin tvá vindbelgi at kœla þá, en í sumum frœðum er þat kallat ísarnkol. Máni stýrir göngu

tungls ok ræðr nýjum ok niðum; hann tók tvau börn af jörðunni er svá hétu: Bil ok Hjúki, er þau géngu frá brunni þeim er Byrgir heitir, ok báru á öxlum sér sá er heitir Sægr, en stöngin Simul. Viðfinnr er nefndr faðir þeirra; þessi börn fylgja Mána svá sem sjá má af jörðu.'

12. Þá mælti Gangleri: 'skjótt ferr sólin ok nær svá sem hon sé hrædd, ok eigi mundi hon þá meirr hvata göngunni, at hon hræddist bana sinn.' þá svarar Hár: 'eigi er þat undarligt, at hon fari ákafliga; nær gengr sá er hana sækir, ok engan útveg á hon nema renna undan.' þá mælti Gangleri: 'hverr er sá er henni görir þann ómaka?' Hár segir: 'þat eru tveir úlfar, ok heitir sá er eptir henni ferr Sköll; hann hræðist hon, ok hann mun taka hana; en sá heitir Hati Hroðvitnisson, er fyrir henni leypr, ok vill hann taka tunglit, ok svá mun verða.' þá mælti Gangleri: 'hver er ætt úlfanna?' Hár segir: 'gýgr ein býr fyrir austan Miðgarð í þeim skógi er Járnviðr heitir; í þeim skógi byggja þær tröllkonur er Járnviðjur heita. hin gamla gýgr fæðir at sonum marga jötna ok alla í vargs líkjum, ok þaðan af eru komnir þessir úlfar. ok svá er sagt, at af ættinni verðr einn máttkastr, er kallaðr er Mánagarmr; hann fyllist með fjörvi allra þeirra manna er deyja, ok hann gleypir tungl ok stökkvir blóði himin ok lopt öll; þaðan týnir sól skini sínu, ok vindar eru þá ókyrrir ok gnýja héðan ok handan. svá segir í Völuspá:

14. Austr býr in aldna
í Járnviði
ok fæðir þar
Fenris kindir;
verðr or þeim öllum
einna nökkurr
tungls tjúgari
í trölls hami.

15. Fyllist fjörvi
feigra manna,
rýðr ragna sjöt
rauðum dreyra;
svört verða sólskin
of sumur eptir,
veðr öll válund.
vituð ér enn eða hvat?'

13. Þá mælti Gangleri: 'hver er leið til himins af jörðu?' þá svarar Hár ok hló við: 'eigi er nú fróðliga spurt; er þér eigi sagt þat, at guðin görðu brú til himins af jörðu, ok heitir Bifröst? hana muntú sét hafa; kann vera, at þat kallir þú regnboga. hon er með þrim litum ok mjök sterk ok gör með list ok kunnáttu meiri en aðrar smíðir. ok svá sem hon er sterk, þá mun hon brotna þá er Muspells megir fara ok ríða hana, ok svima hestar þeirra yfir stórar ár; svá koma þeir fram.' þá mælti Gangleri: 'eigi þótti mér guðin göra af trúnaði brúna, er hon skal brotna mega, er þau megu göra sem þau vilja.' þá mælti Hár: 'eigi eru guðin hallmælis verð fyrir þessa smíð; góð brú er Bifröst, en engi lutr er sá í þessum heimi er sér megi treystast þá er Muspells synir herja.'

14. Þá mælti Gangleri: 'hvat hafðist Allföðr þá at er görr var Ásgarðr?' Hár mælti: 'í upphafi setti hann stjórnarmenn ok beiddi þá at dœma með sér örlög manna ok ráða um skipun borgarinnar; þat var þar sem heitir Iðavöllr í miðri borginni. var þat hit fyrsta þeirra verk at göra hof þat er sæti standa í tólf önnur, en hásætit þat er Allföðr á; þat hús er betst gört á jörðu ok mest; allt er þat útan ok innan svá sem gull eitt; í þeim stað kalla menn Glaðsheim. annan sal görðu þeir þar, þat var hörgr er gyðjurnar áttu, ok var hann allfagr; þat hús kalla menn Vingólf. þar næst görðu þeir þat, at þeir lögðu afla, ok þartil görðu þeir hamar ok töng ok steðja ok þaðan af öll tól önnur, ok því næst smíðuðu þeir málm ok stein ok tré, ok svá gnógliga þann málm er gull heitir, at öll búsgögn höfðu þeir af gulli, ok er sú öld kölluð gullaldr áðr en spiltist af tilkvámu kvænanna; þær komu or Jötunheimum. þarnæst settust guðin upp í sæti sín ok réttu dóma sína ok mintust, hvaðan dvergar höfðu kviknat í móldunni ok niðri í jörðunni, svá sem maðkar í holdi. dvergarnir höfðu skipatst fyrst ok tekit kviknun í holdi Ýmis ok váru þá maðkar. en af atkvæði guðanna urðu þeir vitandi mannvits ok höfðu manns líki ok búa þó í jörðu ok í steinum. Móðsognir var dvergr ok annarr Durinn. svá segir í Völuspá:

16. Þá géngu regin öll
á rökstóla
ginnheilug goð
ok of þat gættust,
at skyldi dverga
drótt ofskepja
or brimi blóðgu
ok or Bláins leggjum.
17. Þar mannlíkun
mörg ofgörðust,
dvergar í jörðu
sem Durinn sagði.

ok þessi segir hon nöfn þeirra dverganna:

18. Nýi, Niði,
Norðri, Suðri,
Austri, Vestri
Alþjófr, Dvalinn,
Nár, Náinn,
Nipingr, Dáinn,
Bifurr, Bafurr,
Bömbörr, Nori,
Ori, Onarr,
Óinn, Moðvitnir,
Vigr ok Gandálfr,
Vindálfr, Þorinn,
Fili, Kili,
Fundinn, Vali,
Þrór, Þróinn,
Þekkr, Litr, Vitr,
Nýr, Nýráðr,
Rekkr, Ráðsviðr.

en þessir eru ok dvergar ok búa í steinum, en hinir fyrri í moldu:

19. Draupnir, Dólgþvari,
Hörr, Hugstari,
Hleðjólfr, Glóinn,
Dori, Ori,
Dúfr, Andvari,
Hepti, Fili,
Hárr, Sfarr.

en þessir komu frá Svarins haugi til Aurvanga á Jöruvöllu, ok eru komnir þaðan Lovarr. þessi eru nöfn þeirra:

20. Skirfir, Virfir,
Skafiðr, Ái,
Álfr, Ingi,
Eikinskjaldi,
Falr, Frosti,
Fiðr, Ginnarr.'

15. Þá mælti Gangleri: 'hvar er höfuðstaðrinn eðr helgistaðrinn guðanna?' Hár svarar: 'þat er at aski Yggdrasils, þar skulu guðin eiga dóma sína hvern dag.' þa mælti Gangleri: 'hvat er at segja frá þeim stað?' þá segir Jafnhár: 'askrinn er allra trjá mestr ok betstr; limar hans dreifast yfir heim allan ok standa yfir himni. þrjár rætr trésins halda því upp ok standa afarbreitt; ein er með Ásum, en önnur með Hrímþussum þar sem forðum var Ginnungagap; en þriðja stendr yfir Niflheimi, ok undir þeirri rót er Hvergelmir, en Níðhöggr gnagar neðan rótina. en undir þeirri rót er til Hrímþursa horfir þar er Mímisbrunnr, er spekt ok mannvit er í fólgit, ok heitir sá Mímir er á brunninn; hann er fullr af vísindum fyrir því at hann drekkr or brunninum af horninu Gjallarhorni. þar kom Allföðr ok beiddist eins drykkjar af brunninum, en hann fékk eigi fyrr en hann lagði auga sitt at veði. svá segir í Völuspá:

21. Allt veit ek Óðinn
hvar þú auga falt.
or þeim inum mæra
Mímis brunni
drekkr mjöð Mímir
morgun hverjan
af veði Valföðrs.
vituð ér enn eða hvat?

þriðja rót asksins stendr á himni, ok undir þeirri rót er brunnr sá er mjök er heilagr, er heitir Urðarbrunnr; þar eigu guðin dómstað sinn; hvern dag ríða Æsir þangat upp um Bifröst; hon heitir ok Ásbrú. hestar Ásanna heita svá: Sleipnir er batstr, hann á Óðinn, hann hefir átta fætr; annarr er Glaðr, þriði Gyllir, fjórði Gler, fimti Skeiðbrímir, setti Silfrtoppr, sjaundi Sinir, áttandi Gils, níundi Falhófnir, tíundi Gulltoppr, Léttfeti ellifti. Baldrs hestr var brendr með honum, en Þórr gengr til dómsins ok veðr ár þær er svá heita:

22. Körmt ok Örmt
ok Kerlaugar tvær
þær skal Þórr vaða
dag hvern
er hann dœma skal
at aski Yggdrasils;
því at ásbrú
brenn öll loga,
heilug vötn hlóa.'

Þá mælti Gangleri: 'brenn eldr yfir Bifröst?' Hár segir: 'þat er þú sér rautt í boganum er eldr brennandi; upp á himin mundu ganga Hrímþursar ok Bergrisar, ef öllum væri fœrt á Bifröst þeim er fara vilja. margir staðir eru á himni fagrir, ok er þar allt guðlig vörn fyrir; þar stendr salr einn fagr undir askinum við brunninn, ok or þeim sal koma þrjár meyjar þær er svá heita: Urðr, Verðandi, Skuld. þessar meyjar skapa mönnum aldr; þær köllum vér Nornir. enn eru fleiri Nornir þær er koma til hvers manns er borinn er at skapa aldr, ok eru þessar guðkunnigar, en aðrar álfaættar, en hinar þriðju dvergaættar. svá sem hér segir:

23. Sundrbornar mjök
hygg ek at Nornir sé,
eigut þær ætt saman;
sumar eru áskungar,
sumar eru álfkungar,
sumar dœttr Dvalins.'

Þá mælti Gangleri: 'ef Nornir ráða orlögum manna, þá skipta þær geysi ójafnt, er sumir hafa gott líf ok ríkuligt, en sumir hafa lítit lén eðr lof, sumir langt líf, sumir skamt.' Hár svarar: 'góðar Nornir ok vel ættaðar skapa góðan aldr; en þeir menn er fyrir ósköpum verða, þá valda því illar Nornir.'

16. Þá mælti Gangleri: 'hvat er fleira at segja stórmerkja frá askinum?' Hár segir: 'mart er þar af at segja. örn einn sitr í limum asksins, ok er hann margs vitandi; en í milli augna honum sitr haukr sá er heitir Veðrfölnir. íkorni sá er heitir Ratatöskr renn upp ok niðr eptir askinum ok berr öfundarorð milli arnarins ok Níðhöggs. en fjórir hirtir renna í limum asksins ok bíta barr; þeir heita svá: Dáinn, Dvalinn, Duneyrr, Duraþrór. en svá margir ormar eru í Hvergelmi með Níðhögg, at engi tunga má telja. svá segir hér:

24. Askr Yggdrasils
drýgir erfiði
meira en menn viti;
hjörtr bítr ofan,
en á hliðu fúnar,
skerðir Níðhöggr neðan.

svá er enn sagt:

25. Ormar fleiri liggja
und aski Yggdrasils,
en þat ofhyggi hverr
ósviðra apa;

Góinn ok Móinn
þeirru Grafvitnis synir
Grábakr ok Grafvölluðr,
Ofnir ok Svafnir
hygg ek at æ myni
meiðs kvistum má.

enn er þat sagt, at Nornir þær er byggja Urðarbrunn taka hvern dag vatn í brunninum ok með aurinn þann er liggr um brunninn ok ausa upp yfir askinn til þess, at eigi skyli limar hans trêna eðr fúna. en þat vatn er svá heilagt, at allir lutir þeir sem þar koma í brunninn verða svá hvítir sem himna sú er skjöll heitir, er innan liggr við eggskurn. svá sem hêr segir:

26. Ask veit ek ausinn
(heitir Yggdrasils
hár baðmr heilagr)
hvíta auri;
þaðan koma döggvar
er í dali falla,
stendr hann æ yfir grœnn
Urðar brunni.

sú dögg er þaðan af fellr á jörðina, þat kalla menn hunangfall, ok þaraf fœðast býflugur. fuglar tveir fœðast í Urðarbrunni; þeir heita Svanir, ok af þeim fuglum hefir komit þat fuglakyn er svá heitir.'

17. Þá mælti Gangleri: 'mikil tíðindi kantú at segja af himnum; hvat er þar fleira höfuðstaða en at Urðarbrunni?' Hár svarar: 'margir staðir eru þar göfugligir; sá er einn staðr þar er kallat er Álfheimr; þar byggvir fólk þat er Ljósálfar heita; en Dökkálfar búa niðri í jörðu, ok eru þeir úlíkir þeim sýnum, en miklu úlíkari reyndum. Ljósálfar eru fegri en sól sýnum, en Dökkálfar eru svartari en bik. þar er einn sá staðr er Breiðablik er kallat, ok engi er þar fegri staðr. þar er ok sá er Glitnir heitir, ok eru veggir hans ok steðr ok stólpar af rauðu gulli, en þak hans af silfri. þar er enn sá staðr er Himinbjörg heitir; sá stendr á himinsenda við brúarsporð þar er Bifröst kemr til himins. þar er enn mikill staðr er Valaskjálf heitir; þann stað á Óðinn, þann görðu guðin ok þöktu skíru silfri; ok þar er Hliðskjálfin í þessum sal, þat hásæti er svá heitir, ok þá er Allföðr sitr í því sæti, þá sêr hann of allan heim. á sunnanverðum himinsenda er sá salr, er allra er fegrstr ok bjartari en sólin, er Gimli heitir; hann skal standa þá er bæði himinn ok jörð hefir faritst, ok byggja þann stað góðir menn ok rêttlátir of allar aldir. svá segir í Völuspá:

27. Sal veit ek standa
sólu fegra,
gulli betra
á Gimli;
þar skulu dyggvar
dróttir byggja
ok of aldrdaga
yndis njóta.'

Þá mælti Gangleri: 'hvat gætir þess staðar þá er Surta logi brennir himin ok jörð?' Hár segir: 'svá er sagt, at annarr himinn sé suðr ok upp frá þessum himni, ok heitir sá himinn Andlangr, en hinn þriði himinn sé enn upp frá þeim, ok heitir sá Víðbláinn, ok á þeim himni hyggjum vér þenna stað vera, en Ljósálfar einir hyggjum vér at nú byggvi þá staði.'

18. Þá mælti Gangleri: 'hvaðan kemr vindr? hann er sterkr svá at hann hrœrir stór höf, ok hann œsir eld; en svá sterkr sem hann er, þá má eigi sjá hann; því er hann undarliga skapaðr.' Þá svarar Hár: 'þat kann ek vel segja þér; á norðanverðum himinsenda sitr jötunn sá er Hræsvelgr heitir; hann hefir arnarham; en er hann beinir flug, þá standa vindar undan vengjum honum. hér segir svá:

28. Hræsvelgr heitir
er sitr á himinsenda
jötunn í arnarham;
af hans vengjum
kveða vind koma
alla menn yfir.'

19. Þá mælti Gangleri: 'hví skilr svá mikit, at sumar skal vera heitt, en vetr kaldr?' Hár svarar: 'eigi mundi svá fróðr maðr spyrja, þvíat þetta vitu allir at segja; en ef þú ert einn orðinn svá fávíss, at eigi hefir þetta heyrt, þá vil ek þó þat vel virða, at heldr spyrir þú eitt sinn ófróðliga, en þú gangir lengr duliðr þess er skylt er at vita. Svasuðr heitir sá er faðir sumars er, ok er hann sællífr svá at af hans heiti er þat kallat svasligt er blítt er. en faðir vetrar er ýmist kallaðr Vindlóni eðr Vindsvalr, hann er Vasaðar sonr, ok váru þeir áttungar grimmir ok svalbrjóstaðir, ok hefir vetr þeirra skaplyndi.'

20. Þá mælti Gangleri: 'hverir eru Æsir þeir er mönnum er skylt at trúa?' Hár svarar: 'tólf eru Æsir guðkunnigir.' Þá mælti Jafnhár: 'eigi eru Ásynjurnar úhelgari, ok eigi megu þær minna.' Þá mælti Þriði: 'Óðinn er æðstr ok elztr Ásanna; hann ræðr öllum lutum, ok svá sem önnur guðin eru máttug, þá þjóna honum öll svá sem börn föður. en Frigg er kona hans, ok veit hon örlög manna, þótt hon segi eigi spár. svá sem hér er sagt, at Óðinn mælti sjálfr við þann Ás er Loki heitir:

29. Œrr ertú Loki
ok örviti;
hví ne legskattú Loki?
örlög Frigg
hygg ek at öll viti,
þótt hon sjálfgi segi.

Ôðinn heitir Allföðr, þvíat hann er faðir allra goða; hann heitir ok Valföðr, þvíat hans óskasynir eru allir þeir er í val falla; þeim skipar hann Valhöll ok Vingólf, ok heita þeir þá Einherjar. hann heitir ok Hangaguð ok Haptaguð ok Farmaguð, ok enn hefir hann nefnst á fleiri vega þá er hann var kominn til Geirröðar konungs:

30. Hétumk Grímr
ok Ganglari,
Herjan, Hjálmberi,
Þekkr, Þriði,
Þuðr, Uðr,
Helblindi, Hár.

31. Saðr, Svipall,
Sanngetall,
Herteitr, Hnikarr,
Bileygr, Báleygr,
Bölverkr, Fjölnir,
Grímnir, Glapsviðr, Fjölsviðr.

32. Síðhöttr, Síðskeggr,
Sigföðr, Hnikuðr,
Allföðr, Atríðr, Farmatýr,
Óski, Ómi,
Jafnhár, Biflindi,
Göndlir, Harbarðr.

33. Sviðurr, Sviðrir,
Jálkr, Kjalarr, Viðurr,
Þrór, Yggr, Þundr,
Vakr, Skilvingr,
Váfuðr, Hroptatýr,
Gautr, Veratýr.'

Þá mælti Gangleri: 'geisimörg heiti hafið ér gefit honum, ok þat veit trúa mín, at þetta mun vera mikill fróðleikr sá er hér kann skyn ok dœmi, hverir atburðir hafa orðit sér til hvers þessa nafns.' þá svarar Hár: 'mikil skynsemi er at rifja vandliga þat; en þó er þér þat skjótast at segja, at flest heiti hafa verit gefin af þeim atburði, at svá margar sem eru greinir tungnanna í veröldunni, þá þykkjast allar þjóðir þurfa at breyta nafni hans til sinnar tungu til ákalls ok bœna fyrir sjálfum sér; en sumir atburðir til þessa heita hafa görtst í ferðum hans, ok er þat fœrt í frásagnir, ok muntú eigi mega fróðr maðr heita, ef þú skalt eigi kunna segja frá þeim stórtíðindum.'

21. Þá mælti Gangleri: 'hver eru nöfn annarra Ásanna eðr hvat hafast þeir at eðr hvat hafa þeir gört til frama?' Hár svarar: 'Þórr er þeirra framast sá er kallaðr Ásaþórr eðr Ökuþórr, hann er sterkastr allra guða ok manna. hann á þar ríki er Þruðvangar heita, en höll hans heitir Bilskirnir; í þeim sal eru fimm hundruð gólfa ok fjórir tigir, þat er hús mest svá at menn hafa gört. svá segir í Grímnismálum:

34. Fimm hundruð gólfa
ok um fjórum tugum
svá hygg ek Bilskirni með bugum;
ranna þeirra,
er ek rept vita
míns veit ek mest magar.

Þórr á hafra tvá er svá heita: Tanngnjóstr ok Tanngrisnir, ok reið þá er hann ekr, en hafrarnir draga reiðna; því er hann kallaðr Ökuþórr. hann á ok þrjá kostgripi; einn þeirra er hamarinn Mjöllnir, er hrímþursar ok bergrisar kenna, þá er hann kemr á lopt, ok er þat eigi undarligt; hann hefir lamit margan haus á feðrum eðr frændum þeirra. annan grip á hann betstan; megingjarðar, ok er hann spennir þeim um sik, þá vex honum ásmegin hálfu. en þriðja lut á hann þann er mikill gripr er í, þat eru járnglófar; þeirra má hann eigi missa við hamars skaptit. en engi er svá fróðr, at telja kunni öll stórvirki hans; en segja kann ek þér svá mörg tíðindi frá honum, at dveljast munu stundirnar áðr en sagt er allt þat er ek veit.'

22. Þá mælti Gangleri: 'spyrja vil ek tíðinda af fleiri Ásunum.' Hár segir: 'annarr sonr Óðins er Baldr, ok er frá honum gott at segja. hann er betstr, ok hann lofa allir. hann er svá fagr álitum ok bjartr, svá at lýsir af honum, ok eitt gras er svá hvítt, at jafnat er til Baldrs brár, þat er allra grasa hvítast; ok þareptir máttú marka hans fegrð, bæði hár ok líki; hann er vitrastr Ásanna ok fegrst talaðr ok líknsamastr. en sú náttúra fylgir honum, at engi má haldast dómr hans. hann býr þar sem heitir Breiðablik, þat er á himni; í þeim stað má ekki vera óhreint svá sem hér segir:

35. Breiðablik heita
þar er Baldr hefir
sér ofgörva sali
í því landi
er ek liggja veit
fæsta feiknstafi.

23. Hinn þriði Áss er sá er kallaðr er Njörðr; hann býr á himni þar sem heitir Nóatún. hann ræðr fyrir göngu vinds ok stillir sjá ok eld; á hann skal heita til sæfara ok til veiða. hann er svá auðigr ok fésæll, at hann má gefa þeim auð landa eðr lausafjár, er á hann heita til þess. hann var uppfœddr í Vanaheimum, en Vanir gisluðu hann guðunum ok tóku í mót Ásagislingu þann er Hœnir heitir; hann varð at sætt með guðunum ok Vönum. Njörðr á þá konu er Skaði heitir, dóttir Þjassa jötuns. Skaði vill hafa bústað þann er átt hafði faðir hennar, þat er á fjöllum nökkurum þar sem heitir Þrymheimr; en Njörðr vill vera nær sæ; þau sættust á þat, at þau skyldu vera níu nætr í Þrymheimi, en þá aðrar níu at Nóatúnum. en er Njörðr kom aptr til Nóatúna af fjallinu, þá kvað hann þetta:

36. Leið erumk fjöll,
varka ek lengi,

nætr einar níu;
úlfa þytr
mér þótti illr vera
hjá söngvi svana.

Þá kvað Skaði þetta:

37. Sofa ek né máttak
sævar beðjum á
fugls jarmi fyrir;
sá mik vekr
er af víði kemr
morgun hverjan már.

Þá fór Skaði upp á fjallit ok bygði í Þrymheimi, ok ferr hon mjök á skíðum ok með boga ok skýtr dýr; hon heitir öndrguð eðr öndrdís. svá er sagt:

38. Þrymheimr heitir
er Þjassi bjó
sá hinn ámátki jötunn;
en nú Skaði byggvir,
skír brúðr guða,
fornar tóptir föður.

24. Njörðr í Nóatúnum gat síðan tvau börn; hét sonr Freyr, en dóttir Freyja; þau váru fögr álitum ok máttug. Freyr er hinn ágætasti af Ásum; hann ræðr fyrir regni ok skini sólar, ok þarmeð ávexti jarðar, ok á hann er gott at heita til árs ok friðar; hann ræðr ok fésælu manna. en Freyja er ágætust af Ásynjum; hon á þann bœ á himni er Fólkvangar heita; ok hvar sem hon ríðr til vígs, þá á hon hálfan val, en hálfan Óðinn, svá sem hér segir:

39. Fólkvangr heitir,
en þar Freyja ræðr
sessa kostum í sal;
hálfan val hon kýss
á hverjan dag,
en hálfan Óðinn á.

salr hennar Sessrýmnir hann er mikill ok fagr. en er hon ferr, þá ekr hon köttum tveim ok sitr í reið. hon er nákvæmust mönnum til áheita, ok af hennar nafni er þat tignarnafn, er ríkiskonur eru kallaðar frúr. henni líkaði vel mansöngr; á hana er gott at heita til ásta.'

25. Þá mælti Gangleri: 'miklir þykkja mér þessir fyrir sér Æsirnir; ok eigi er undarligt, at mikill kraptr fylgi yðr, er þér skuluð kunna skyn guðanna, ok vita, hvert biðja skal hverrar bœnarinnar. eða eru fleiri enn

guðin?' Hár svarar: 'så er enn Áss er Týr heitir. hann er djarfastr ok betsthugaðr, ok hann ræðr mjök sigri í orostum; á hann er gott at heita hreystimönnum. þat er orðtak, at så er týhraustr, er umfram er aðra menn ok ekki sèst fyrir. hann var ok vitr, svå at þat er mælt, at så er týspakr er vitrastr er. þat er eitt mark um djarfleik hans. þå er Æsir lokkuðu Fenrisúlf til þess at leggja fjötrinn å hann Gleipni, þå trúði hann þeim eigi, at þeir mundu leysa hann fyrr en þeir lögðu honum at veði hönd Týrs i munn úlfsins, en þå er Æsir vildu eigi leysa hann, þå beit hann höndina af þar er nú heitir úlfliðr, ok er hann einhendr ok ekki kallaðr sættir manna.

26. Bragi heitir einn, hann er ågætr at speki ok mest at målsnild ok orðfimi; hann kann mest af skåldskap, ok af honum er bragr kallaðr skåldskapr, ok af hans nafni er så kallaðr bragr karla eða kvenna, er orðsnild hefir framar en aðrir kona eða karlmaðr. kona hans er Iðunn, hon varðveitir í eski sínu epli þau er guðin skulu åbíta þå er þau eldast, ok verða þå allir ungir, ok svå mun vera allt til ragnarökrs.' þå mælti Gangleri: 'allmikit þykki mèr guðin eiga undir gætslu eða trúnaði Iðunnar.' þå mælti Hár ok hló við: 'nær lagði þat úfœru einu sinni; kunna mun ek þaraf at segja, en þú skalt nú fyrst heyra nöfn Åsanna fleiri.

27. Heimdallr heitir einn, hann er kallaðr hvíti Áss, hann er mikill ok heilagr; hann båru at syni meyjar níu ok allar systr; hann heitir ok Hallinskíði ok Gullintanni; tennr hans våru af gulli. hestr hans heitir Gulltoppr. hann býr þar er heitir Himinbjörg við Bifröst; hann er vörðr goða ok sitr þar við himinsenda at gæta brúarinnar fyrir bergrisum; þarf hann minna svefn en fugl; hann sèr jafnt nótt sem dag hundrað rasta frå sèr; hann heyrir ok þat er gras vex å jörðu eða ull å sauðum, ok allt þat er hærra lætr; hann hefir lúðr þann er Gjallarhorn heitir ok heyrir blåstr hans í alla heima. Heimdallar sverð er kallat höfuð. hèr er svå sagt:

40. Himinbjörg heita,
en þar Heimdall
kveða valda vèum;
þar vörðr goða drekkr
í væru ranni
glaðr hinn góða mjöð.

ok enn segir hann sjålfr í Heimdallar galdri:

41. Níu em ek mœðra mögr,
níu em ek systra sonr.

28. Höðr heitir einn Åss, hann er blindr; œrit er hann styrkr, en vilja mundu guðin, at þenna Ås þyrfti eigi at nefna,

þvíat hans handaverk munu lengi vera höfð at minnum með guðum ok mönnum.

29. Viðarr heitir einn hinn þögli Áss; hann hefir skó þykkan. hann er sterkr næst því sem Þórr er; af honum hafa guðin mikit traust í allar þrautir.

30. Áli eða Vali heitir einn, sonr Óðins ok Rindar; hann er djarfr í orrostum ok mjök happskeytr.

31. Ullr heitir einn, sonr Sifjar, stjúpsonar Þórs; hann er bogmaðr svá góðr ok skíðfœrr svá at engi má við hann keppast. hann er ok fagr álitum ok hefir hermanns atgörvi; á hann er ok gott at heita í einvígi.

32. Forseti heitir sonr Baldrs ok Nönnu Nepsdóttur. hann á þann sal á himni er Glitnir heitir; en allir er til hans koma með sakarvandræði þá fara allir sáttir á braut; sá er dómstaðr betstr með guðum ok mönnum; svá segir hér:

42. Glitnir heitir salr,
hann er gulli studdr
ok silfri þaktr it sama;
en þar Forseti byggvir
flestan dag
ok svæfir allar sakar.

33. Sá er enn taldr með Ásum, er sumir kalla rógbera Ásanna ok frumkveða flærdanna ok vömm allra goða ok manna. sá er nefndr Loki eða Loptr, sonr Farbauta jötuns; móðir hans er Laufey eða Nál, brœðr hans eru þeir Býleistr ok Helblindi. Loki er fríðr ok fagr sýnum, illr í skaplyndi, mjök fjölbreytinn at háttum; hann hafði þá speki umfram aðra menn er slægð heitir ok vélar til allra luta; hann kom Ásum jafnan í fullt vandræði, ok opt leysti hann þá með vélræðum. kona hans heitir Sygin, sonr þeirra Nari eða Narvi.

34. Enn átti Loki fleiri börn. Angrboða hét gýgr í Jötunheimum; við henni gat Loki þrjú börn: eitt var Fenrisúlfr, annat Jörmungandr eða Miðgarðsormr, þriðja er Hel. en er guðin vissu til, at þessi þrjú systkin fœddust upp í Jötunheimum, ok guðin röktu til spádóma, at af systkinum þessum mundi þeim mikit mein ok óhapp standa, ok þótti öllum mikils ills af væni, fyrst af móðerni ok enn verra af faðerni, þá sendi Allföðr til guðin at taka börnin ok fœra sér. ok er þau komu til hans, þá kastaði hann orminum í hinn djúpa sæ er liggr um öll lönd, ok óx sá ormr svá, at hann liggr í miðju hafinu um öll lönd ok bítr í sporð sér. Hel kastaði hann í Niflheim ok gaf henni vald yfir níu heimum, at hon skipti öllum vistum með þeim, er til hennar váru sendir, en þat eru sóttdauðir menn ok ellidauðir. hon á þar mikla bólstaði, ok eru garðar hennar forkunnarhávir ok grindr stórar. Eljuðnir

heitir salr hennar, Hungr diskr hennar, Sultr knífr hennar, Ganglati þrællinn, Ganglöt ambátt, Fallandaforað þresköldr hennar er inn gengr, Kör sæing, Blíkjandaböl ársali hennar. hon er blá hálf, en hálf með hörundarlit, því er hon auðkend, ok heldr gnúpleit ok grimmlig.

Úlfin fœddu Æsir heima, ok hafði Týr einn djarfleik til at ganga at úlfnum ok gefa honum mat. en er guðin sá, hversu mikit hann óx hvern dag ok allar spár sögðu, at hann mundi vera lagðr til skaða þeim, þá fengu Æsir þat ráð, at þeir görðu fjötur allsterkan er þeir kölluðu Læðing, ok báru hann til úlfsins ok báðu hann reyna afl sitt við fjöturinn; en úlfinum þótti sér þat ekki ofrefli ok lét þá fara með sem þeir vildu. hit fyrsta sinn er úlfrinn spirndi við, brotnaði sá fjöturr; svá leystist hann or Læðingi. því næst görðu Æsirnir annan fjötur hálfu sterkara er þeir kölluðu Dróma ok báðu enn úlfinn reyna þann fjötur ok töldu hann verða mundu ágætan mjök at afli, ef slík stórsmíði mætti eigi halda honum. en úlfrinn hugsaði, at þessi fjöturr var sterkr mjök, ok þat með, at honum hafði afl vaxit síðan er hann braut Læðing; kom þat í hug, at hann mundi verða at leggja sik í hættu, ef hann skyldi frægr verða, ok lét leggja á sik fjöturinn. ok er Æsir töldust búnir, þá hristi úlfrinn sik, spirndi við ok laust fjöturinum á jörðina svá at fjarri flugu brotin; svá drap hann sik or Dróma. þat er síðan haft fyrir orðtak, at leysi or Læðingi eða drepi or Dróma þá er einnhverr lutr er ákafliga sóttr. eptir þat óttuðust Æsirnir, at þeir mundu eigi fá bundit úlfinn. þá sendi Allföðr svein þann er Skirnir er nefndr, sendimaðr Freys, ofan í Svartálfaheim til dverga nökkurra ok lét göra fjötur þann er Gleipnir heitir. hann var gjörr af sex lutum: af dyn kattarins ok af skeggi konunnar ok af rótum bjargsins ok af sinum bjarnarins ok af anda fisksins ok af fugls hráka; ok þóttú vitir eigi áðr þessi tíðindi, þá máttú nú finna skjótt hér sönn dœmi, at eigi er logit at þér. sét muntú hafa, at konan hefir ekki skegg ok engi dynr verðr af hlaupi kattarins ok eigi eru rœtr undir bjarginu; ok þat veit trúa mín, at jafnsatt er þat allt er ek hefi sagt þér, þótt þeir sé sumir lutir er þú mátt eigi reyna.' — þá mælti Gangleri: 'þetta má ek at vísu skilja, at satt er; þessa luti má ek sjá, er þú hefir nú til dœma tekit; en hvernig varð fjöturrinn smíðaðr?' — Hár svarar: 'þat kann ek þér vel segja. fjöturrin varð sléttr ok blautr sem silkiræma, en svá traustr ok sterkr sem nú skaltú heyra. þá er fjöturrinn var fœrðr Ásunum, þökkuðu þeir vel sendimanni sitt eyrindi. þá fóru Æsirnir út í vatn þat er Amsvartnir heitir, í hólm þann er Lyngvi er kallaðr ok kölluðu með sér úlfinn ok sýndu honum silkibandit ok báðu hann slíta ok kváðu vera nökkuru traustara, en líkindi þœtti á fyrir digrleiks sakar, ok seldi hverr öðrum ok treysti með handa

afli ok slitnaði eigi; en þó kváðu þeir úlfinn slíta mundu. þá svarar úlfrinn: 'svá lítst mér á þenna dregil, sem önga frægð munak af hljóta, þótt ek slíta í sundr svá mjótt band; en ef þat er gört með list ok vél, þótt þat sýnist lítit, þá kemr þat band eigi á mína fœtr.' þá sögðu Æsirnir, at hann mundi skjótt sundrslíta mjótt silkiband, er hann hafði fyrr brotit stóra járnfjötra; 'en ef þú fær eigi þetta band slitit, þá muntú ekki hræða mega guðin, enda skulum vér þá leysa þik.' úlfrinn svarar: 'ef þér bindið mik svá at ek fæk eigi leyst mik, þá skollið þér svá at mér mun seint verða at taka af yðr hjálp; úfúss em ek at láta þetta band á mik leggja. en heldr en þér frýið mér hugar, þá leggi einnhverr hönd sína í munn mér at veði, at þetta sé falslaust gört. en hverr Ásanna sá til annars ok þótti nú vera tvau vandræði ok vildi engi sína hönd framselja fyrr en Týr lét fram hönd sína hœgri ok leggr í munn úlfinum. en er úlfrinn spirnir, þá harðnaði bandit, ok því harðara er hann brautst um, því skarpara var bandit. þá hlógu allir nema Týr; hann lét hönd sína. þá er Æsirnir sá, at úlfrinn var bundinn at fullu, þá tóku þeir festina, er or var fjötrinum er Gelgja heitir, ok drógu hana gögnum hellu mikla, sú heitir Gjöll, ok festu helluna langt í jörð niðr; þá tóku þeir mikinn stein ok skutu enn lengra í jörðina, sá heitir Þviti, ok höfðu þann stein fyrir festarhælinn. úlfrinn gapti ákafliga ok fékkst um mjök ok vildi bíta þá. þeir skutu í munn honum sverði nökkuru, nema hjöltin við neðra gómi, en efra gómi blóðrefillinn; þat er gómsparri hans. hann grenjar illiliga, ok slefa renn or munni hans, þat er á sú er Ván heitir; þar liggr hann til ragnarökkrs.' — þá mælti Gangleri: 'furðuilla barnaeign gat Loki, en öll þessi systkin eru mikil fyrir sér. en fyrir hví drápu Æsir eigi úlfinn, er þeim er ills ván af honum?' — Hár svarar: 'svá mikils virðu guðin vé sín ok griðastaði, at eigi vildu þau saurga þá með blóði úlfsins, þótt svá segi spárnar, at hann muni verða at bana Óðni.'

35. Þá mælti Gangleri: 'hverjar eru Ásynjurnar?' — Hár svarar: 'Frigg er æðst, hon á þann bœ er Fensalir heita, ok er hann allvegligr. önnur er Sága, hon býr á Sökkvabekk, ok er þat mikill staðr. þriðja er Eir, hon er læknir betstr. fjórða er Gefjun, hon er mær, ok henni þjóna þær er meyjar andast. fimta er Fulla, hon er enn mær ok ferr laushár ok gullband um höfuð; hon berr eski Friggjar ok gætir skóklæða hennar ok veit launráð með henni. Freyja er tignust með Frigg; hon giptist þeim manni er Óðr heitir; dóttir þeirra heitir Hnoss, hon er svá fögr, at af hennar nafni eru hnossir kallaðar, þat er fagrt er ok görsimligt. Óðr fór í braut langar leiðir, en Freyja grætr eptir, en tár hennar eru gull rautt. Freyja á mörg nöfn; en sú er sök til þess, at

hon gaf sér ýmis heiti er hon fór með ókunnum þjóðum at leita Óðs; hon heitir Mardöll ok Hörn, Gefn, Sýr. Freyja átti Brisingamen. hon er kölluð Vanadís. sjaunda Sjöfn; hon gætir mjök til at snúa hugum manna til ásta, kvenna ok karla; af hennar nafni er elskuginn kallaðr sjafni. áttanda Lofn; hon er svá mild ok góð til áheita, at hon fær leyfi af Allföðr eða Frigg til manna samgangs, kvenna ok karla, þótt áðr sé bannat eða þvertekit; fyrir því er af hennar nafni lof kallat ok svá þat er lofat er mjök af mönnum. níunda Vör; hon hlýðir á eiða manna ok einkamál, er veita sín á milli konur ok karlar; því heita þau mál varar; hon hefnir ok þeim er brigða. Vör er ok vitr ok spurul svá at engi lut má hana leyna; þat er orðtak, at kona verði vör þess er hon verðr vís. tíunda Syn; hon gætir dura í höllinni ok lýkr fyri þeim er eigi skulu inn ganga; ok hon er sett til varnar á þingum fyrir þau mál er maðr vill ósanna; því er þat orðtak, at syn sé fyrir sett þá er maðr neitar. ellifta Hlín; hon er sett til gætslu yfir þeim mönnum er Frigg vill forða við háska nökkurum; þaðan af er þat orðtak, at sá er forðast hleinir. tólfta Snotra; hon er vitr ok látprúð; af hennar heiti er kallat snotr kona eða karlmaðr sá er vitr maðr er. þrettánda Gná; hana sendir Frigg í ýmsa heima at eyrindum sínum. hon á þann hest er renn lopt ok lög, er heitir Hófhvarfnir. þat var eitt sinn er hon reið, at Vanir nakkvarir sá reið hennar í loptinu; þá mælti einn:

43. 'hvat þar flýgr?
hvat þar ferr
eða at lopti líðr?'

hon svarar:

44. 'né ek flýg,
þó ek fer
ok at lopti líð
á Hófhvarfni
þeim er Hamskerpir
gat við Garðrofu.'

af Gnár nafni er svá kallat, at þat gnæfi er hátt ferr. Sól ok Bil eru taldar með Ásynjum, en sagt er fyrr frá eðli þeirra.

36. Enn eru þær aðrar er þjóna skulu í Valhöll, bera drykkju ok gæta borðbúnaðar ok ölgagna. svá eru þær nefndar í Grímnismálum:

45. Hrist ok Mist
vil ek at mér horn beri,
Skeggöld ok Skögul,
Hildr ok Þrúðr,
Hlökk ok Herfjötur,
Göll ok Geirahöð,
Randgríð ok Ráðgríð
ok Reginleif
þær bera Einherjum öl.

illa, er hann lêt pîna hann saklausan. Grimnir drakk af, þâ var eldrinn svâ kominn, at feldrinn brann af Grimni. hann kvað:

1. Heitr ertû hripuðr
ok heldr tilmikill,
göngumk firr funi;
loði sviðnar,
þótt ek â lopt berak,
brennumk feldr fyrir.

2. Âtta nættr sat ek
milli elda hêr,
svâ at mêr mangi
mat nê bauð
nema einn Agnarr,
er einn skal râða
Geirröðar sonr
gotna landi.

3. Heill skaltû Agnarr,
alls þik heilan biðr
veratŷr vera;
eins drykkjar
þû skalt aldregi
betri gjöld geta.

4. Land er heilagt
er ek liggja sê
Âsum ok Âlfum nær;
en î Þrûðheimi
skal Þôrr vera
uns umrjûfask regin.

5. Ŷdalir heita
þar er Ullr hefir
sêr umgörva sali;
Âlfheim Frey gâfu
î ârdaga
tîvar at tannfê.

6. Bœr er sâ inn þriði
er blîð regin
silfri þöktu sali;
Valaskjâlf heitir
er vælti sêr
Âss î ardaga.

7. Sökkvabekkr heitir inn fjôrði,
en þar svalar knegu
unnir yfirglymja;
þar þau Ôðinn ok Sâga
drekka um alla daga
glöð or gullnum kerum.

8. Glaðsheimr heitir inn fimti
þars in gullbjarta
Valhöll víð ofþrumir;
en þar Hroptr kŷss
hverjan dag
vâpndauða vera.

9. Mjök er auðkent
þeim er til Ôðins koma,
salkynni at sjâ;
sköptum er rann rept,
skjöldum er salr þakiðr,
brynjum um bekki strât.

10. Mjök er auðkent
þeim er til Ôðins koma,
salkynni at sjâ;
vargr hangir
fyr vestan dyrr,
ok drûpir örn yfir.

11. Þrymheimr heitir inn setti
er Þjassi bjô
sâ inn âmâtki jötunn;
en nû Skaði byggvir,
skîr brûðr goða,
fornar tôptir föður.

12. Breiðablik eru in sjaundu,
en þar Baldr hefir
sêr umgörva sali·
â því landi
er ek liggja veit
fæsta feiknstafi.

13. Himinbjörg eru in âttu,
en þar Heimdall

kveða valda véum;
þar vörðr goða drekkr
í væru ranni
glaðr inn góða mjöð.

14. Fólkvangr er inn níundi,
en þar Freyja ræðr
sessa kostum í sal;
hálfan val hon kýss
hverjan dag,
en hálfan Óðinn á.

15. Glitnir er inn tíundi,
hann er gulli studdr
ok silfri þaktr it sama;
en þar Forseti byggir
flestan dag
ok svæfir allar sakir.

16. Nóatún eru in ellíftu,
en þar Njörðr hefir
sér umgörva sali;
manna þengill
inn meinsvani
hátimbruðum hörgi ræðr.

17. Hrísi vex
ok há grasi
Viðars land ok viði;
en þar mögr oflætsk
af Ímars baki
frœkn at hefna föður.

18. Andhrímnir lætr
í Eldhrímni
Sæhrímni soðinn,
fleska betst;
en þat fáir vitu,
við hvat einherjar alask.

19. Gera ok Freka
seðr gunntamiðr
hróðigr herjaföðr;
en við vín eitt
vápngöfugr
Óðinn æ lifir.

20. Huginn ok Muninn
fljúga hverjan dag
jörmungrund yfir;
óumk ek of Hugin,
at hann aptr né komi,
þó sjámk meir um Munin.

21. Þýtr Þund,
unir Þjóðvitnis
fiskr flóði í;
árstraumr þykkir
ofmikill
Valglaumi at vaða.

22. Valgrind heitir
er stendr velli á,
heilög fyr helgum durum;
forn er sú grind,
en þat fáir vitu,
hvé hon er í lás umlokin.

23. Fimhundruð dura
ok um fjórum tugum
svá hygg ek at Valhöllu vera;
áttahundruð einherja
ganga senn or einum durum
þá er þeir fara við vitni at vega.

24. Fimhundruð gólfa
ok um fjórum tugum
svá hygg ek Bilskirni meðbugum;
ranna þeirra
er ek rept vita
míns veit ek mest magar.

25. Heiðrún heitir geit
er stendr höllu á herjaföðrs
ok bítr af Læraðs limum;
skaptker fylla hon skal
ins skíra mjaðar,
knáat sú veig vanask.

26. Eikþyrnir heitir hjörtr
er stendr á höllu herjaföðrs
ok bítr af Læraðs limum;
en af hans hornum

drýpr í Hvergelmi;
þaðan eiga vötn öll vega:
27. Síð ok Víð,
Sækin ok Eikin,
Svöl ok Gunnþró,
Fjörm ok Fimbulþul,
Rín ok Rennandi,
Gipul ok Göpul,
Gömul ok Geirvimul;
þær hverfa um hödd goða.
Þyn ok Vin,
Þöll ok Höll,
Gráð ok Gunnþorin.
28. Vína heitir ein,
önnur Vegsvinn,
þriðja Þjóðnuma;
Nyt ok Nöt,
Nönn ok Hrönn,
Slíð ok Hríð,
Sylgr ok Ylgr
Víð ok Ván,
Vönd ok Strönd,
Gjöll ok Leiptr,
þær falla gumnum nær,
en falla til Heljar héðan.
29. Körmt ok Örmt
ok Kerlaugar tvær
þær skal Þórr vaða
hverjan dag
er hann dœma ferr
at aski Yggdrasils;
þvíat ásbrú
brenn öll loga,
heilög vötn hlóa.
30. Glaðr ok Gyllir,
Gler ok Skeiðbrímir,
Silfrintoppr ok Sinir,
Gísl ok Falhófnir,
Gulltoppr ok Léttfeti,
þeim ríða Æsir jóm
dag hvern
er þeir dœma fara
at aski Yggdrasils.
31. Þrjár rœtr standa
á þrjá vega
undan aski Yggdrasils;
Hel býr undir einni,
annarri hrímþursar,
þriðju menskir menn.
32. Ratatoskr heitir íkorni
er renna skal
at aski Yggdrasils;
arnar orð
hann skal ofan bera
ok segja Níðhöggvi niðr.
33. Hirtir eru ok fjórir
þeirs af hefinga rá
gaghálsir gnaga:
Dáinn ok Dvalinn,
Duneyrr ok Duraþrór.
34. Ormar fleiri liggja
und aski Yggdrasils,
en þat ofhyggi hverr
ósviðra apa;
Góinn ok Móinn
þeirru Grafvitnis synir,
Grábakr ok Grafvölluðr,
Ofnir ok Svafnir
hygg ek at æ skyli
meiðs kvistu má.
35. Askr Yggdrasils
drýgir erfiði
meira en menn viti;
hjörtr bítr ofan,
en á hliðu fúnar,
skerðir Níðhöggr neðan.
36. Hrist ok Mist
vil ek at mér horn beri,
Skeggöld ok Skögul,
Hlökk ok Herfjötur,

Hildi ok Þrúði.
Göll ok Geirölul,
Randgrîð ok Râðgrîð
ok Reginleif
þær bera einherjum öl.

37. Árvakr ok Alsviðr
þeir skulu upp hêðan
svasligir sôl draga;
en und þeirra bôgum
fâlu blîð regin
Æsir îsarnkol.

38. Svalinn heitir,
hann stendr sôlu fyrir
skjöldr skînanda goði;
björg ok brim ek veit
at brenna skulu,
ef hann fellr îfrâ.

39. Sköll heitir úlfr
er fylgir inu skîrleita goði
til varna viðar,
en annarr Hati,
hann er Hrôðvitnis sonr,
sâ skal fyr heiða brúði himins.

40. Or Ŷmis holdi
var jörð umsköpuð,
en or sveita sær,
björg or beinum,
baðmr or hâri,
en or hausi himinn.

41. En or hans brâm
görðu blîð regin
Miðgarð manna sonum,
en or hans heila
vâru þau in harðmóðgu
skŷ öll umsköpuð.

42. Ullar hylli hefir
ok allra goða
hverr er tekr fyrstr â funa;
þvîat opnir heimar verða
um Âsa sonum
þâ er hefja af hvera.

43. Îvalda synir
gèngu î ârdaga
Skîðblaðni at skapa
skipa betst
skîrum Frey,
nŷtum Njarðar bur.

44. Askr Yggdrasils
hann er æðstr viða,
en Skîðblaðnir skipa,
Ôðinn Âsa,
en jôa Sleipnir,
Bifröst brúa,
en Bragi skâlda,
Hâbrôk hauka,
en hunda Garmr.

45. Svipum hefi ek nú ypt
fyr sigtîva sonum,
við þat skal vilbjörg vaka;
öllum Âsum
þat skal innkoma
Œgis bekki â,
Œgis drekku at.

46. Hêtumk Grîmr,
hêtumk Gangleri,
Herjan ok Hjâlmberi,
Þekkr ok Þriði,
Þundr ok Uðr,
Helblindi ok Hâr,

47. Saðr ok Svipall
ok Sanngetall,
Herteitr ok Hnikarr,
Bileygr, Bâleygr,
Bölverkr, Fjölnir,
Grîmr ok Grimnir,
Glapsviðr ok Fjölsviðr,

48. Sîðhöttr, Sîðskeggr,
Sigföðr, Hnikuðr,
Allföðr, Valföðr

Atriðr ok Farmatýr;
einu nafni
hêtumk aldregi
síðs ek með fôlkum fôr.
49. Grimni mik hêtu
at Geirröðar,
en Jâlk at Âsmundar,
en þâ Kjalar
er ek kjâlka drô,
Þrôr þingum at,
Viður at vígum,
Ôski ok Ômi,
Jafnhâr ok Biflindi,
Göndlir ok Harbarðr með goðum.
50. Sviðurr ok Sviðrir
ek hêt at Sökkmímis,
ok dulda ek þann inn aldna jötun,
þâ er ek Miðvitnis vark
íns mæra burar
orðinn einbani.
51. Ölr ertû Geirröðr,
hefir þû ofdrukkit,
miklum ertû miði tældr,
miklu ertû hnugginn,
er þû ert mínu gengi,
öllum einherjum ok Ôðins hylli.
52. Fjöld ek þêr sagða,
en þû fâtt ummant,
of þik vêla vinir;
mæki liggja
ek sê míns vinar
allan í dreyra drifinn.
53. Eggmôðan val
nû mun Yggr hafa,
þitt veit ek líf umliðit;
ûfarru dísir,
nû knâttû Ôðin sjâ,
nâlgastû mik ef þû megir.
54. Ôðinn ek nû heiti,
Yggr ek âðan hêt,
hêtumk Þundr fyrir þat,
Vakr ok Skilfingr,
Vâfuðr ok Hrôptatýr,
Gautr ok Jâlkr með goðum,
Ofnir ok Svafnir,
er ek hygg at orðnir sê
allir af einum mêr.

Geirröðr konungr sat ok hafði sverð um knê sêr ok brugðit til miðs. en er hann heyrði, at Ôðinn var þar kominn, þâ stôð hann upp ok vildi taka Ôðin frâ eldinum. sverðit slapp or hendi hânum, ok vissu hjöltin niðr; konungr drap fœti ok steyptisk âfram, en sverðit stôð í gögnum hann, ok fêkk hann bana. Ôðinn hvarf þâ, en Agnarr var þâ konungr lengi síðan.

---

# HÂVAMÂL.

1. Gâttir allar
âðr gangi fram
umskoðask skyli;
þvíat ôvíst er at vita,
hvâr ôvinir sitja
â fleti fyrir.
2. Gefendr heilir!
gestr er inn kominn,

hvar skal sitja sjá?
mjök er bráðr
sá er á brautum skal
síns umfreista frama.
3. Elds er þörf
þeims inn er kominn
ok á knê kalinn.
matar ok váða
er manni þörf
þeim er hefir um fjall farit.
4. Vatns er þörf
þeim er til verðar kemr,
þerru ok þjóðlaðar,
góðs umœðis,
ef sêr geta mætti
orðs ok endrþögu.
5. Vits er þörf
þeim er víða ratar,
dælt er heima hvat;
at augabragði verðr
sá er ekki kann
ok með snotrum sitr.
6. At hyggjandi sinni
skylit maðr hrœsinn vera,
heldr gætinn at geði.
þá er horskr ok þögull
kemr heimisgarða til,
sjaldan verðr víti vörum;
þvíat óbrigðra vin
fær maðr aldregi
en manvit mikit.
7. Inn vari gestr
er til verðar kemr
þunnu hljóði þegir,
eyrum hlýðir,
en augum skoðar.
svá nýsisk fróðra hverr fyrir.
8. Hinn er sæll
er sêr umgetr
lof ok líknstafi;
ódælla er við þat
er maðr eiga skal
annars brjóstum í.
9. Sá er sæll
er sjálfr umá
lof ok vit meðan lifir;
þvíat ill ráð hefir
maðr opt þegit
annars brjóstum or.
10. Byrði betri
berrat maðr brautu at
en sê manvit mikit.
auði betra þykkir
þat í ókunnum stað;
slíkt er válaðs vera.
11. Vegnest verra
vegra hann velli at,
en sê ofdrykkja öls;
era svá gott
sem gott kveða
öl alda sona;
þvíat færa veit
er fleira drekkr
síns til geðs gumi.
12. Óminnis hegri heitir
sá er yfir öldrum þrumir,
hann stelr geði guma;
þess fugls fjöðrum
ek fjötraðr vark
í garði Gunnlaðar.
13. Ölr ek varð,
varð ofrölvi
at ins fróða Fjalars;
því er öldr batstr,
at aptr ofheimtir
hverr sitt geð gumi.
14. Þagalt ok hugalt
skyli þjóðans barn
ok vígdjarft vera,
glaðr ok reifr

skyli gumna hverr
uns sinn bíðr bana.
15. Ósnjallr maðr
hyggsk munu ey lifa,
ef hann við víg varask;
en elli gefr
hânum engi frið,
þótt hânum geirar gefi.
16. Kópir afglapi
er til kynnis kemr,
þylsk hann um eða þrumir;
allt er senn
ef hann sylg umgetr
uppi er þâ geð guma.
17. Sâ einn veit
er víða ratar
ok hefir fjöld umfarit,
hverju geði stýrir
gumna hverr
sâ er vitandi er vits.
18. Haldi maðr â keri,
drekki þó at hófi mjöð,
mæli þarft eða þegi;
ókynnis þess
varr þik engi maðr,
at þú gangir snemma at sofa.
19. Grâðugr halr
nema geðs viti
etr sér aldrtrega;
opt fær hlœgis
er með horskum kemr
manni heimskum magi.
20. Hjarðir þat vitu
nær þær heim skulu
ok ganga þâ af grasi;
en ósviðr maðr
kann ævagi
síns um mâl maga.
21. Vesall maðr
ok illa skapi
hlær at hvívetna,
hitki hann veit
er hann vita þyrfti,
at hann erat vamma vanr.
22. Ósviðr maðr
vakir um alla nættr
ok hyggr at hvívetna,
þâ er móðr
er at morni kemr,
allt er víl sem var.
23. Ósnotr maðr
hyggr sér alla vera
viðhlæjendr vini,
hitki hann fiðr,
þótt þeir um hann fâr lesi,
ef hann með snotrum sitr.
24. Ósnotr maðr
hyggr sér alla vera
vilmælendr vini;
þâ þat finnr
er at þingi kemr,
at hann â formælendr fâ.
25. Ósnotr maðr
þykkisk allt vita
ef hann â sér í vâ veru;
hitki hann veit,
hvat hann skal viðkveða,
ef hans freista fírar.
26. Ósnotr maðr
er með aldir kemr,
þat er batst, at hann þegi;
engi þat veit,
at hann ekki kann
nema hann mæli til mart.
27. Fróðr sâ þykkisk
er fregna kann
ok segja it sama;
eyvitu leyna
megu ýta synir
því er gengr um guma.

28. Œrna mælir
sá er æva þegir
staðlausu stafi,
hraðmælt tunga
nema haldendr eigi
opt sér ógott umgelr.
29. At augabragði
skala maðr annan hafa,
þótt til kynnis komi;
margr þá fróðr þykkisk,
ef hann freginn erat
ok nái hann þurrfjallr þruma.
30. Fróðr þykkisk sá
er flótta tekr
gestr at gest hæðinn;
veita görla
sá er um verði glissir,
þótt hann með grömum glami.
31. Gumnar margir
erusk gagnhollir,
en at verði rekask;
aldar róg þat
mun æ vera,
orir gestr við gest.
32. Árliga verðar
skyli maðr opt fá
nema til kynnis komi;
sitr ok snópir,
lætr sem sólginn sé
ok kann fregna at fá.
33. Afhvarf mikit
er til ills vinar,
þótt á brautu búi;
en til góðs vinar
liggja gagnvegir,
þótt hann sé firr farinn.
34. Ganga skal,
skala gestr vera
ey í einum stað;
ljúfr verðr leiðr,
ef lengi sitr
annars fletjum á.
35. Bú er betra,
þótt lítit sé,
halr er heima hverr;
þótt tvær geitr eigi
ok taugreptan sal,
þat er þó betra en bœn.
36. Bú er betra,
þótt lítit sé,
halr er heima hverr;
blóðugt er hjarta
þeim er biðja skal
sér í mál hvert matar.
37. Vápnum sínum
skala maðr velli á
feti ganga framar,
þvíat óvíst er at vita,
nær verðr á vegum úti
geirs um þörf guma.
38. Fanka ek mildan mann
eða svá matargóðan,
at ei væri þiggja þegit,
eða síns fjár
svá gjöflan,
at leið sé laun ef þægi.
39. Fjár síns
er fengit hefir
skylit maðr þörf þola;
opt sparir leiðum
þats hefir ljúfum hugat;
mart gengr verr en varir.
40. Vápnum ok váðum
skulu vinir gleðjask,
þat er á sjálfum sýnst;
viðrgefendr ok endrgefendr
erusk lengst vinir,
ef þat bíðr at verða vel.
41. Vin sínum skal
maðr vinr vera

ok gjalda gjöf við gjöf;
hlátr við hlátri
skyli höldar taka,
en lausung við lygi.
42. Vin sínum skal
maðr vinr vera,
þeim ok þess vin;
en óvinar síns
skyli engi maðr
vinar vinr vera.
43. Veitstú ef þú vin átt
þanns þú vel trúir
ok vill þú af hánum gott geta,
geði skaltú við þann blanda
ok gjöfum skipta,
fara at finna opt.;
44. Ef þú átt annan
þanns þú illa trúir,
vildú af hánum þó gott geta,
fagrt skaltú við þann mæla,
en flátt hyggja
ok gjalda lausung við lygi.
45. Þat er enn of þann
er þú illa trúir
ok þér er grunr at hans geði,
hlæja skaltú við þeim
ok um hug mæla,
glík skulu gjöld gjöfum.
46. Ungr var ek forðum,
fór ek einn saman,
þá varð ek villr vega;
auðigr þóttumk
er ek annan fann;
maðr er manns gaman.
47. Mildir frœknir
menn batst lifa,
sjaldan sút ala;
en ósnjallr maðr
uggir hotvetna,
sýtir æ glöggr við gjöfum.
48. Váðir mínar
gaf ek velli at
tveim trémönnum;
rekkar þat þóttusk
er þeir ript höfðu;
neiss er nökkviðr halr.
49. Hrörnar þöll
sú er stendr þorpi á,
hlýrat henni börkr né barr;
svá er maðr sá
er mangi ann;
hvat skal hann lengi lifa?
50. Eldi heitari
brennr með illum vinum
friðr fimm daga;
en þá sloknar
er inn setti kemr,
ok versnar allr vinskapr.
51. Mikit eitt
skala manni gefa,
opt kaupir sér í litlu lof;
með hálfum hleif
ok með höllu keri
fékk ek mér félaga.
52. Lítilla sanda,
lítilla sæva,
lítil eru geð gumna;
því allir menn
urðut jafnspakir,
hálf er öld hvar.
53. Meðalsnotr skyli
manna hverr,
æva til snotr sé;
þeim er fírða
fegrst at lifa,
er vel mart vitu.
54. Meðalsnotr skyli
manna hverr,
æva til snotr sé;
þvíat snotrs manns hjarta

verðr sjaldan glatt,
ef sâ er alsnotr er â.
55. Meðalsnotr skyli
manna hverr,
æva til snotr sê;
orlög sîn viti
engi maðr fyrir,
þeim er sorgalausastr sefi.
56. Brandr af brandi brenn
uns brunninn er,
funi kveykisk af funa;
maðr af manni
verðr at mâli kuðr,
en til dœlskr af dul.
57. Âr skal rîsa
sâ er annars vill
fê eða fjör hafa;
sjaldan liggjandi ûlfr
lær umgetr
nê sofandi maðr sigr.
58. Âr skal rîsa
sâ er â yrkendr fâ
ok ganga sîns verka â vit;
mart umdvelr þann
er um morgin sefr,
hâlfr er auðr und hvötum.
59. Þurra skîða
ok þakinna næfra,
þess kann maðr mjötuði,
þess viðar
er vinnask megi
mâl ok misseri.
60. Þveginn ok mettr
rîði maðr þingi at,
þótt hann sêt væddr til vel;
skûa ok brôka
skammisk engi maðr
nê hests þótt hafit gôðan.
61. Fregna ok segja
skal frôðra hverr
sâ er vill heitinn horskr;
einn vita
nê annarr skal,
þjôð veit ef þrîrru.
62. Snapir ok gnapir
er til sævar kemr
örn â aldinn mar;
svâ er maðr
er með mörgum kemr
ok â formælendr fâ.
63. Rîki sitt skyli
râðsnotra hverr
î hôfi hafa,
þâ hann þat finnr
er með frœknum kemr,
at engi er einna hvatastr.
64. Gætinn ok geyminn
skyli gumna hverr
ok varr at vintrausti,
orða þeirra
er maðr öðrum segir,
opt hann gjöld umgetr.
65. Mikils til snemma
kom ek î marga staði,
en til sîð î suma;
öl var drukkit,
sumt var ôlagat,
sjaldan hittir leiðr î lið.
66. Hêr ok hvar mundi
mêr heim ofboðit,
ef þyrftak at mâlungi mat;
eða tvau lær hêngi
at ins tryggva vinar
þars ek hafða eitt etit.
67. Eldr er betstr
með ýta sonum
ok sôlar sýn,
heilindi sitt
ef maðr hafa nâir,
ân við löst at lifa.

68. Erat maðr alls vesall,
þótt hann sé illa heill;
sumr er af sonum sæll,
sumr af frændum,
sumr af fé œrnu,
sumr af verkum vel.

69. Betra er lifðum
ok velifðum,
ey getr kvikr kú;
eld sá ek uppbrenna
auðgum muni fyrir,
en úti var dauðr fyr durum.

70. Haltr ríðr hrossi,
hjörð rekr handarvanr,
daufr vegr ok dugir;
blindr er betri
en brendr sé,
nýtr mangi nás.

71. Sonr er betri
þótt sé síð ofalinn
eptir genginn guma;
sjaldan bautarsteinar
standa brautu nær,
nema reisi niðr at nið.

72. Tveirru eins herjar,
tunga er höfuðs bani,
er mér í heðin hvern
handar væni.

73. Nótt verþr feginn
sá er nesti trúir,
skammarru skips rár,
hverf er haustgríma,
fjöld umviðrir
á fimm dögum,
en meira á mánaði.

74. Veita hinn
er vætki veit,
margr verðr af öðrum api;
maðr er auðigr,
annarr óauðigr,
skylit þann vítka vár.

75. Deyr fé,
deyja frændr,
deyr sjálfr it sama;
en orðstírr
deyr aldregi
hveim er sér góðan getr.

76. Deyr fé,
deyja frændr,
deyr sjálfr it sama;
ek veit einn,
at aldri deyr:
dómr um dauðan hvern.

77. Fullar grindir sá ek
fyr fitjungs sonum,
nú bera þeir vánarvöl;
svá er auðr
sem augabragð,
hann er valtastr vina.

78. Ósnotr maðr
ef eignask getr
fé eða fljóðs munuð,
metnaðr hánum þróask,
en mannvit aldregi;
fram gengr hann drjúgt í dul.

79. Þat er þá reynt,
er þú at rúnum spyrr
inum reginkunnum
þeim er görðu ginregin
ok fáði fimbulþulr,
þá hefir hann batst ef hann þegir.

80. At kveldi skal dag leyfa,
konu er brend er,
mæki er reyndr er,
mey er gefin er,
ís er yfir kemr,
öl er drukkit er.

81. Í vindi skal við höggva,
veðri á sjó róa,

myrkri við man spjalla,
mörg eru dags augu;
á skip skal skriðar orka,
en á skjöld til hlífar,
mæki höggs,
en mey til kossa.
82. Við eld skal öl drekka,
en á ísi skríða,
magran mar kaupa,
en mæki saurgan,
heima hest feita,
en hund á búi.
83. Meyjar orðum
skyli mangi trúa
né því er kveðr kona;
þvíat á hverfanda hveli
váru þeim hjörtu sköpuð,
brigð í brjóst umlagið.
84. Brestanda boga,
brennanda loga,
gínanda úlfi,
galandi kráku,
rýtanda svíni,
rótlausum viði,
vaxanda vági,
vellanda katli,
85. Fljúganda fleini,
fallandi báru
ísi einnættum,
ormi hringlægnum,
brúðar beðmálum
eða brotnu sverði,
bjarnar leiki
eða barni konungs,
86. Sjúkum kálfi,
sjálfráða þræli,
völu vilmæli,
val nýfeldum,
heiðríkum himni,
hlæjanda harra,
hunda helti
ok harmi skœkju.
87. Akri ársánum
trúi engi maðr
né til snemma syni;
veðr ræðr akri,
en vit syni,
hætt er þeirra hvárt.
88. Bróðurbana sínum
þótt á brautu mœti,
húsi hálfbrunnu,
hesti alskjótum
(þá er jór onýtr
ef einn fótr brotnar);
verðit maðr svá tryggr,
at þessu trúi öllu.
89. Svá er friðr kvenna
þeirra er flátt hyggja:
sem aki jó óbryddum
á ísi hálum,
teitum tvévetrum
ok sé tamr illa;
eða í byr óðum
beiti stjórnlausu,
eða skyli haltr henda
hrein í þáfjalli.
90. Bert ek nú mæli,
þvíat ek bæði veit,
brigðr er karla hugr konum;
þá vér fegrst mælum
er vér flást hyggjum,
þat tælir horska hugi.
91. Fagrt skal mæla
ok fé bjóða
sá er vill fljóðs ást fá;
líki leyfa
ins ljósa mans,
sá fær er frjár.
92. Ástar firna
skyli engi maðr

annan aldregi;
opt fá á horskan
er á heimskan né fá
lostfagrir litir.
93. Eyvitar firna
maðr annan skal
þess er um margan gengr guma;
heimska or horskum
görir hölda sonu
sá inn máttki munr.
94. Hugr einn þat veit
er býr hjarta nær,
einn er hann sér um sefa;
öng er sótt verri
hveim snotrum manni
en sér öngu at una. —
95. Þat ek þá reynda
er ek í reyri sat
ok vættak míns munar;
hold ok hjarta
var mér in horska mær,
þeigi ek hana at heldr hefik.
96. Billings mey
ek fann beðjum á
sólhvíta sofa,
jarls yndi þótti
mér ekki vera
nema við þat lík at lifa.
97. Auk nær apni
skaltú Óðinn koma
ef þú vilt þér mæla man;
allt eru ósköp
nema einir viti
slíkan löst saman.
98. Aptr ek hvarf
ok unna þóttumk,
vísum vilja frá;
hitt ek hugða,
at ek hafa mynda
geð hennar allt ok gaman.

99. Svá kom ek næst,
at in nýta var
vígdrótt öll umvakin
með brennandum ljósum
ok bornum viði;
svá var mér vílstígr ofvitaðr.
100. Ok nær morni
er ek var enn umkominn,
þá var saldrótt umsofin;
grey eitt ek þá fann
innar góðu konu
bundit beðjum á.
101. Mörg er góð mær,
ef görva kannar,
hugbrigð við hali;
þá ek þat reynda
er it ráðspaka
teygða ek á flærðir fljóð;
háðungar hverrar
leitaði mér it horska man,
ok hafða ek þess vætki vífs.
102. Heima glaðr gumi
ok við gesti reifr,
sviðr skal um sik vera,
minnigr ok málugr
ef hann vill margfróðr vera,
opt skal góðs geta.
103. Fimbulfambi heitir
sá er fátt kann segja,
þat er ósnotrs aðal. —
104. Inn aldna jötun ek sótta,
nú em ek aptr umkominn,
fátt gat ek þegjandi þar;
mörgum orðum
mælta ek í minn frama
í Suttungs sölum.
105. Gunnlöð mér umgaf
gullnum stóli á
drykk ins dýra mjaðar;
ill iðgjöld lét ek

hana eptir hafa
síns ins heila hugar,
síns ins svára sefa.

106. Rata munn létumk
rúms umfá
ok um grjót gnaga;
yfir ok undir
stóðumk jötna vegir,
svá hætta ek höfði til.

107. Velkeypts litar
hefi ek vel notit,
fás er fróðum vant;
þvíat Óðrœrir
er nú uppkominn
á alda vés jarðar.

108. Ifi er mér á,
at ek væra enn kominn
jötna görðum or,
ef ek Gunnlaðar né nytak
innar góðu konu
þeirrar er lögðumk arm yfir.

109. Ins hindra dags
géngu hrímþursar
Háva ráðs at fregna
Háva höllu í;
at Bölverki þeir spurðu,
ef hann væri með böndum kominn
eða hefði hánum Suttungr ofsóit.

110. Baugeið Óðinn
hygg ek at unnit hafi,
hvat skal hans trygðum trúa?
Suttung svikinn
hann lét sumbli frá
ok grætta Gunlöðu.

---

## LODDFAFNISMÁL.

111. Mál er at þylja
þularstóli at
Urðarbrunni at;
sá ek ok þagðak,
sá ek ok hugðak,
hlýdda ek á manna mál.

112. Of rúnar heyrða ek dœma
ok regindóma,
né um risting þögðu
né um ráðum þögðu
Háva höllu at,
Háva höllu í
heyrða ek segja svá:

113. Ráðumk þér Loddfafnir,
at þú ráð nemir,
njóta mundú ef þú nemr;
nótt þú rísat
nema á njósn sér
eða þú leitir þér innan útstaðar.

114. Ráðumk þér Loddfafnir,
at þú ráð nemir,
njóta mundú ef þú nemr;
fjölkunnigri konu
skalattú í faðmi sofa
svá at hon lyki þik liðum.

115. Hon svá görir,
at þú gáir eigi
þings né þjóðans máls,
mat þú villat
né mannskis gaman,
ferr þú sorgafullr sofa.

116. Ráðumk þér Loddfafnir,
at þú ráð nemir,
njóta mundú ef þú nemr;
annars konu
teygðú þér aldregi
eyrarúnu at.

117. Ráðumk þér Loddfafnir,
en þú ráð nemir,
njóta mundú ef þú nemr;
á fjalli eða firði
ef þik fara tíðir
fástú at verði vel.

118. Illan mann
láttú aldregi
óhöpp at þér vita;
þvíat af illum manni
fær þú aldregi
gjöld ins góða hugar.
119. Ofarla bíta
ek sá einum hal
orð illrar konu,
fláráð tunga
varð hánum at fjörlagi
ok þeigi um sanna sök.
120. Veitstú ef þú vin átt
þanns þú vel trúir,
farðú at finna opt;
þvíat hrísi vex
ok hávu grasi
vegr er vætki treðr.
121. Ráðumk þér Loddfafnir,
en þú ráð nemir,
njóta mundú ef þú nemr;
góðan mann teygðú
þér at gamanrúnum
ok nem at líknargaldr meðan þú lifir.
122. Vin þínum
verðú aldregi
fyrri at flaumslitum;
sorg etr hjarta,
ef þú segja né náir
einhverjum allan hug.
123. Ráðumk þér Loddfafnir,
en þú ráð nemir,
njóta mundú ef þú nemr;
orðum skipta
þú skalt aldregi
við ósvinna apa.
124. Þvíat af illum manni
mundú aldregi
góðs laun umgeta;
en góðr maðr
mun þik görva mega
líknfastan at lofi.
125. Sifjum er þá blandat
hverr er segja ræðr
einum allan hug;
allt er betra
en sé brigðum at vera,
era sá vinr öðrum er vilt eitt segir.
126. Ráðumk þér Loddfafnir,
en þú ráð nemir,
njóta mundú ef þú nemr;
þrimr orðum senna
skalattú þér við verra mann;
opt inn betri bilar
þá er inn verri vegr.
127. Skósmiðr þú verir
né skeptismiðr
nema þú sjálfum þér sér;
skór er skapaðr illa
eða skapt sé rangt,
þá er þér böls beðit.
128. Ráðumk þér Loddfafnir,
en þú ráð nemir,
njóta mundú ef þú nemr;
hvars þú böl kant,
kveð þú þér bölvi at
ok gefat þínum fjándum frið.
129. Ráðumk þér Loddfafnir,
en þú ráð nemir,
njóta mundú ef þú nemr;
illu feginn
verðú aldregi,
en lát þér at góðu getit.
130. Ráðumk þér Loddfafnir,
en þú ráð nemir,
njóta mundú ef þú nemr;
upplíta skalattú í orrostu;
gjalti glíkir
verða gumna synir,
síðr þitt umheilli halir.

131. Ef þû vilt þêr gôða konu
kveðja at gamanrûnum
ok fâ fögnuð af,
fögru skaltû heita
ok lâta fast vera,
leiðisk mangi gott ef getr.
132. Varan bið ek þik vera
ok eigi ofvaran,
verðû við öl varastr
ok við anars konu
ok við þat it þriðja,
at þjôfar nê leiki.
133. At hâði nê hlâtri
hafðû aldregi
gest nê ganganda;
opt vitu ôgörla
þeir er sitja inni fyrir,
hvers þeirru kyns er koma.
134. Löstu ok kosti
bera ljôða synir
blandna brjôstum î;
erat maðr svâ gôðr,
at galli nê fylgi,
nê svâ illr, at einugi dugi.
135. At hârum þul
hlæðû aldregi;
opt er gott þat er gamlir kveða.
opt or skörpum belg
skilin orð koma
þeim er hangir með ham
ok skollir með skrâm
ok vâfir með vîlmögum.
136. Râðumk þêr Loddfafnir,
en þû râð nemir,
njôta mundû ef þû nemr;
gest þû nê geyja
nê â grind hrækir,
gettû vâluðum vel.
137. Ramt er þat trê
er rîða skal
öllum at upploki;
baug þû gef,
eða þat biðja mun þêr
læs hvers â liðu.
138. Râðumk þêr Loddfafnir,
en þû râð nemir,
njôta mundû ef þû nemr.
hvars þû öl drekkr
kjôstû þêr jarðarmegin;
þvîat jörð tekr við öldri,
en eldr við sôttum,
eik við abbindi,
ax við fjölkyngi,
höll við hîrôgi,
heiptum skal mâna kveðja,
beiti við bitsôttum,
en við bölvi rûnar,
fold skal við flôði taka.

---

## RÛNATALS ÞÂTTR ÔÐINS.

139. Veit ek at ek hêkk
vindga meiði â
nættr allar nîu
geiri undaðr
ok gefinn Ôðni,
sjâlfr sjâlfum mêr,
â þeim meiði
er mangi veit
hvers hann af rôtum renn.
140. Við hleifi mik seldu
nê við hornigi;
nýsta ek niðr;
nam ek upp rûnar,
œpandi nam,
fêll ek aptr þaðan.
141. Fimbulljôð nîu
nam ek af inum frægja syni
Bölþorns Bestlu föður,

ok ek drykk ofgat
ins dýra mjaðar
ausinn Óðrœri.

142. Þá nam ek frævask
ok fróðr vera
ok vaxa ok vel hafask;
orð mér af orði
orðs leitaði,
verk mér af verki
verks leitaði.

143. Rúnar muntú finna
ok ráðna stafi,
mjök stóra stafi,
mjök stinna stafi
er fáði fimbulþulr
ok görðu ginregin
ok reist hroptr rögna.

144. Óðinn með Ásum,
en fyr Álfum Dáinn,
Dvalinn ok dvergum fyrir,
Ásviðr jötnum fyrir,
ek reist sjálfr sumar.

145. Veitstú hvé rísta skal?
veitstú hvé ráða skal?
veitstú hvé fá skal?
veitstú hvé freista skal?
veitstú hvé biðja skal?
veitstú hvé blóta skal?
veitstú hvé senda skal?
veitstú hvé sóa skal?

146. Betra er óbeðit
en sé ofblótit,
ey sér til gildis gjöf;
betra er ósent
en sé ofsóit.
svá Þundr umreist
fyr þjóða rök,
þar hann upp umreis
er hann aptr ofkom.

147. Ljóð ek þau kann
er kannat þjóðans kona
ok mannskis mögr.
hjálp heitir eitt,
en þat þér hjálpa mun
við sökum ok sorgum
ok sútum görvöllum.

148. Þat kann ek annat
er þurfu ýta synir
þeir er vilja læknar lifa.

149. Þat kann ek it þriðja:
ef mér verðr þörf mikil
hapts við mína heiptmögu,
eggjar ek deyfi
minna andskota,
bítat þeim vápn né velir.

150. Þat kann ek it fjórða:
ef mér firðar bera
bönd at boglimum,
svá ek gel,
at ek ganga má;
sprettr mér af fótum fjöturr,
en af höndum hapt.

151. Þat kann ek it fimta:
ef ek sé af fári skotinn
flein í fólki vaða,
flýgra hann svá stint,
at ek stöðvigak,
ef ek hann sjónum ofsék.

152. Þat kann ek it setta:
ef mik særir þegn
á rótum rás viðar,
ok þann hal
er mik heipta kveðr
þann eta mein heldr en mik.

153. Þat kann ek it sjaunda:
ef ek sé hávan loga
sal um sessmögum;
brennrat svá breitt,

at ek hánum bjargigak;
þann kann ek galdr at gala.

154. Þat kann ek it átta,
er öllum er
nytsamligt at nema:
hvars hatr vex
með hildings sonum,
þat má ek bœta brátt.

155. Þat kann ek it níunda:
ef mik nauðr umstendr
at bjarga fari mínu á floti;
vind ek kyrri
vági á
ok svæfik allan sæ.

156. Þat kann ek it tíunda:
ef ek sé túnriður
leika lopti á,
ek svá vink,
at þær villar fara
sinna heim hama,
sinna heim huga.

157. Þat kann ek it ellifta:
ef ek skal til orrostu
leiða langvini,
undir randir ek gel;
en þeir með ríki fara
heilir hildar til,
heilir hildi frá,
koma þeir heilir hvaðan.

158. Þat kann ek it tólfta:
ef ek sé á trê uppi
váfa virgilná,
svá ek ríst
ok í rúnum fák,
at sá gengr gumi
ok mælir við mik.

159. Þat kann ek it þrettánda:
ef ek skal þegn ungan
verpa vatni á,
munat hann falla,
þótt hann í fólk komi,
hnígra sá halr fyr hjörum.

160. Þat kann ek it fjugrtánda:
ef ek skal firða liði
telja tíva fyrir,
Ása ok Álfa
ek kann allra skil;
fár kann ósnotr svá.

161. Þat kann ek it fimtánda,
er gól Þjóðreyrir
dvergr fyr Dellings durum;
afl gól hann Ásum,
en Álfum frama,
hyggju Hroptatý.

162. Þat kann ek it sextánda:
ef ek vil ins svinna mans
hafa geð allt ok gaman,
hugi ek hverfi
hvítarmri konu,
ok snÿ ek hennar öllum sefa.

163 Þat kann ek it sjautjánda,
at mik mun seint firrask
it manunga man.
ljóða þessa
muntú Loddfáfnir
lengi vanr vera,
þó sé þér góð ef þú getr,
nÿt ef þú nemr,
þörf ef þú þiggr.

164. Þat kann ek it áttjánda,
er ek æva kennik
mey né manns konu
(allt er betra
er einn umkann,
þat fylgir ljóða lokum)
nema þeirri einni
er mik armi verr
eða mín systir sé.

165. Nú eru Hávamál kveðin
Háva höllu í,
alþörf ýta sonum,
óþörf jötna sonum.
heill sá er kvað,
heill sá er kann,
njóti sá er nam,
heilir þeirs hlýddu!

---

# SONARTORREK.

1. Mjök erumk tregt
tungu at hrœra
eðr loptvægi
ljóðpundara;
era nú vænligt
um Viðris þýfi
né hógdrœgt
or hugar fylskni.
2. Era auðþeyst;
þvíat ekki veldr
höfugligr
or hyggju stað
þagnafundr
þriggja niðja
árborinn
or Jötunheimum.
3. Lastalauss
er lifnaði
á nökkvers
nökkva Bragi,
jötuns háls
undir þjóta
náins niðr
fyr naustdyrum.
4. Þvíat ætt mín
á enda stendr
sem hræbarnar
hlimar marka.
era kaskr maðr
sá er kögla berr
frænda hrærs
af fletjum niðr.
5. Þó mun ek mitt
ok móður hrær
föðurfall
fyrst umtelja.
þat ber ek út
or orðhofi
mærðar timbr
máli laufgat.
6. Grimt var um hlið
þat er hrönn umbraut
föður míns
á frændgarði.
veit ek ófullt
ok opit standa
sonar skarð
er mér sjár umvann.
7. Mjök hefir Rán
ryskt um mik,
em ek ofsnauðr
at ástvinum;
sleit marr bönd
minnar ættar,
snaran þátt
af sjálfum mér.
8. Veitstú ef um þá sök
sverði ofrækak,
var ölsmið
illrar tíðar.

hroða vágs brœðr
ef umvega mættak
fœra ek andvígr
Œgis mani.
9. En ek ekki
eiga þóttumk
sakar afl
við súðs bana;
þvíat alþjóð
fyri augum verðr
gamals þegns
gengileysi.
10. Mik hefir marr
miklu ræntan,
grimt er fall
frænda at telja,
síðan er minn
á munvega
aldarskjöldr
af lífi hvarf.
11. Veit ek þat sjálfr,
at í syni mínum
var ylgsþegns
efni vaxit,
ef sá randviðr
röskvast næði
uns Hergauts
hendr oftœki.
12. Álét flest
þat er faðir mælti,
þótt öll þjóð
annat segði,
ok mér upphélt
um verbergi
ok mitt afl
mest umstuddi.
13. Opt kemr mér
mana bjarnar
í byrvind
brœðra leysi;
hyggjumk um
er hildr þróast,
nýsumk hins
ok hygg at því:
14. Hverr mér hugaðr
á hlið standi
annarr þegn
við óðræði;
þarf ek þess opt
of her görum,
verð ek varfleygr
er vinir þverra.
15. Mjök er torfyndr
sá er trúa knegum
af alþjóð
elgjar gálga;
þvíat niflgóðr
niðja steypir
bróður hrær
við baugum selr.
finn ek þat opt
er fjár beiðir.
16. Þat er ok mælt,
at enginn geti
sonar iðgjöld
nema sjálfr ali,
né þann nið
er öðrum sé
borinn maðr
í bróður stað.
17. Erumka þokt
þjóða sinni
þótt sérhverr
sáttum haldi;
burr er býskips
í bœ kominn
konar sonr
kynnis leita.
18. En mér Finns
í föstum þokk

hrosta hilmir
á hendi stendr;
máka ek upp
í óróar grímu
rýnis reið
réttri halda,
19. Slðs son minn
sóttar brími
heiptugligr
or heimi nam
þann ek veit,
at varnaði
vamma varr
við námæli.
20. Þat man ek enn
er uppumhóf
í goðheim
Gauta spjalli
ættar ask
þann er óx af mér
ok kynvið
konar minnar.
21. Átta ek gott
við geira dróttin,
görðumk tryggr
at trúa hánum
áðr vinað
vagnarunni
sigrhöfundr
umsleit við mik.
22. Blótka ek því
bróður Vílis
goð jarðar,
at ek gjarn sék;
þó hefir Mímis vinr
mér umfengit
bölva bætr
ef it betra telk.
23. Gáfumk íþrótt
úlfs ofbagi
vígi vanr
vammi firða
ok þat geð
er ek görða mér
vísa fjándr
at vélöndum.
24. Nú er mér torvelt,
Tveggja baga
Nara nipt
á nesi stendr;
skal ek þó glaðr
með góðan vilja
ok óhryggr
Heljar bíða.

# GETSPEKI HEIÐREKS KONUNGS.

Maðr hét Gestr ok var kallaðr hinn blindi. hann var hersir ríkr þar á Reitgotalandi; illr var hann ok ódæll. hann hafði haldit skatti fyrir Heiðreki konungi, ok var mikill fjándskapr á millum þeirra. konungr sendi honum orð, at hann kæmi á sinn fund ok hlýddi dómi spekinga sinna eðr héldi bardaga. þessi kostr þótti Gesti hvárigr góðr, ok görðist hann mjök hugsjúkr, þvíat hann vissi margar sakir sér á hendi. tók hann þá þat ráð, at hann blótaði Óðinn til fulltyngis sér, ok biðr hann líta á sitt mál ok

heitir honum miklum launum. eitt kveld síðla er þar drepit á dyr, ok gengr Gestr hinn blindi til dyra; hann spyrr þann mann at nafni er kominn var, en hann kvaðst Gestr heita; síðan spurðust þeir almæltra tíðinda. komumaðr spurði, ef þat væri nökkut er hann angraði; Gestr blindi sagði honum allt hit ljósasta. komumaðr mælti: 'ek mun fara þinna vegna á konungs fund ok vita hvernin gengr; skulu vit skipta litum ok klæðum.' ok svá görðu þeir. ferr nú bóndi bort ok felr sik, en gestrinn gengr inn, ok er þar um nóttina ok þykkjast allir kenna Gest hinn blinda. um daginn eptir görir Gestr för sína á konungs fund ok léttir eigi fyrr en hann kemr í Árheima. hann gengr í höllina ok kveðr vel konunginn. konungr þagði ok leit til hans reiðugliga. 'herra' segir hann, 'því kom ek hingat, at ek vil við yðr sættast.' þá svarar konungr: 'viltú þola dóm spekinga minna?' hann svarar: 'eru ekki fleiri undanlausnir?' konungr mælti: 'vera skulu fleiri: þú skalt bera upp gátu þá er ek kann eigi ráða ok kaupa þik með því í frið. viltú heldr þola dóm spekinganna?' — 'þat kýs ek fyrr' segir Gestr 'at bera upp gátur nökkurar.' konungr kvað þat vel fallit. þá mælti Gestr hinn blindi:

1. 'Hafa vildak
þat ígær hafðak,
vittú hvat þat var
lýða semill:
orða tefill
ok orða upphefill.
Heiðrekr konungr
hygg þú at gátu.'

Heiðrekr svarar:

2. 'Góð er gáta þín
Gestr blindi,
getit er þeirrar:
mungát semr œði
ok örvar mælgi,
en öðrum vefst tunga um tönn.'

þá mælti Gestr:

3. 'Heiman ek fór,
heiman ek ferðaðist,
sák á veg vega:
vegr var undir,
vegr var yfir
ok vegr á alla vegu.
Heiðrekr konungr
hygg þú at gátu.'

Heiðrekr svarar:

4. 'Góð er gáta þín
Gestr blindi,
getit er þeirrar:
fugl þaryfir fló,
fiskr þarundir svam
fórtú at brú.'

þá mælti Gestr:

5. 'Hvat var þat drykkjar
er ek drakk ígær?
varat þat vatn né vín,
mjöðr né mungát
né matar ekki,
þó gékk ek þorstlauss þaðan.
Heiðrekr konungr
hygg þú at gátu.'

Heiðrekr svarar:

6. 'Góð er gáta þín
Gestr blindi,
getit er þeirrar:

fórtú sólu í,
falst þik í skugga,
þar féll dögg í dali,
þá namtú þér
at náttdöggu
ok kœldir svá kverkr þaðan.'
þá mælti Gestr:
7. 'Hverr er sá hinn hvelli
er gengr harðar götur,
ok hefir hann þær fyrr umfarit
mjök fast kyssir
ok hefir munna tvá,
gengr á gulli einu?
Heiðrekr konungr
hygg þú at gátu.'
Heiðrekr svarar:
8. 'Góð er gáta þín
Gestr blindi,
getit er þeirrar:
gengr hamarr
á glóð Rínar,
kveðr við hátt
ok kemr á steðja.'
þá mælti Gestr:
9. 'Hvat er þat undra
er ek úti sá
fyrir Dellings dyrum?
ókvikir tveir
andalausir
sárlauk suðu.
Heiðrekr konungr
hygg þú at gátu.
Heiðrekr svarar:
10. 'Góð er gáta þín
Gestr blindi,
getit er þeirrar:
erat blærr né bruni
í belgjum smiða,
hafat þeir líf né lá;
má þó fyr þeim
mæki smíða
við þann gust er gefa.'
þá mælti Gestr:
11. 'Hvat er þat undra
er ek úti sá
fyrir Dellings dyrum?
fœtr hefir átta,
fjögur augu
ok berr ofar kné inn kvið:
Heiðrekr konungr
hygg þú at gátu.'
Heiðrekr svarar:
12. 'Góð er gáta þín
Gestr blindi,
getit er þeirrar:
austan gékstú
at Ýmis dyrum
salkynni at sjá;
komstú þar at
er köngurvafa
vef or þörmum vaf.'
þá mælti Gestr:
13. 'Hvat er þat undra
er ek úti sá
fyrir Dellings dyrum?
höfði sínu vísar
á helvegu,
en fótum til sólar snýr.
Heiðrekr konungr
hygg þú at gátu.'
Heiðrekr svarar:
14. 'Góð er gáta þín
Gestr blindi,
getit er þeirrar:
höfuð veit
í hlóðynjar skaut,
en blöð í lopt á lauk.'
þá mælti Gestr:
15. 'Hvat er þat undra
er ek úti sá

fyrir Dellings dyrum?
horni harðara,
hrafni svartara,
skildi skygnara,
skapti réttara.
Heiðrekr konungr
hygg þú at gátu.'

Heiðrekr svarar:

16. 'Góð er gáta þín
Gestr blindi,
getit er þeirrar:
leitstú á leiðir,
lá hrafntinna,
glóði geisla mót.'

þá mælti Gestr:

17. 'Báru hrundir
bleikhaddaðar
ambáttir tvær
öl til skemmu;
varat þat höndum horfit
né hömrum klappat;
sjá var út við eyjar
örðigr er görði.
Heiðrekr konungr
hygg þú at gátu.'

Heiðrekr svarar:

18. 'Góð er gáta þín
Gestr blindi,
getit er þeirrar:
ham bera svanir
hvítfjaðraðan
er við eyjar
á víði sitja;
hreiðr þeir bygðu,
hendr né höfðu
ok gaghálsum
egg viðgátu.'

þá mælti Gestr:

19. 'Hverjarru rygjar
á reginfjalli?
elr kván kona,'
mær við meyju
mög ofgetr,
ok eigut þær varðir vera.
Heiðrekr konungr
hygg þú at gátu.'

Heiðrekr svarar:

20. 'Góð er gáta þín
Gestr blindi,
getit er þeirrar:
fjallhvannir tvær
fantú standa,
ok þriðja unga
þeirra í millum.'

þá mælti Gestr:

21. 'Fara ek sák
foldar moldauka,
ok sat naðr á nái;
blindr reið blindum
brimheiðar til,
þá jór var andarvani.
Heiðrekr konungr
hygg þú at gátu.'

Heiðrekr svarar:

22. 'Góð er gáta þín
Gestr blindi,
getit er þeirrar:
jó fantú dauðan
á jaka liggja,
örn á tafni;
þat bar á ísi
ár til samans
straumr ströndu at.'

þá mælti Gestr:

23. 'Hverirru þegnar
er ríða þingi at
sáttir allir saman?
lýða sína senda þeir
lönd yfir
at byggja bólstaði.

Heiðrekr konungr
hygg þû at gâtu.'

Heiðrekr svarar:

24. 'Góð er gâta þín
Gestr blindi,
getit er þeirrar:
Ítrekr ok Öndóttr
um aldrdaga
tefla teitir skák,
sátt er þeim lið allt
er í sjóð kemr,
en á reitum reitt.'

þá mælti Gestr:

25. 'Hverjarru drósir
er sinn dróttin
vápnlausan vega?
inar dökkvari hlífa
um alla daga,
en inar fegri fara.
Heiðrekr konungr
hygg þû at gâtu.'

Heiðrekr svarar:

26. 'Góð er gâta þín
Gestr blindi,
getit er þeirrar:
duga hnefatöflur
dökkvar í tafli,
en hvítar herja á mót.'

þá mælti Gestr:

27. 'Hverr er sá inn eini
er sefr í ösgrá
af grjóti einu görr?
föður né móður á sá
inn fárgjarni,
þar mun hann sinn aldr ala.
Heiðrekr konungr
hygg þû at gâtu.'

Heiðrekr svarar:

28. 'Góð er gâta þín
Gestr blindi,
getit er þeirrar:
eld elr aska
í arni fólginn,
tinnu getr hann grjót.'

þá mælti Gestr:

29. 'Hverr er sá inn mörkvi
er mold ferr yfir?
svelgr hann vatn ok við,
glygg hann óast,
en guma ekki
ok yrkir á sól til saka.
Heiðrekr konungr
hygg þû at gâtu.'

Heiðrekr svarar:

30. 'Góð er gâta þín
Gestr blindi,
getit er þeirrar:
gengr upp mörkvinn
or Gýmis fletjum
ok heldr af hlýrni sýn,
sá drepr skini
Dvalins leiku,
flýr einn Fornjóts bur.'

þá mælti Gestr:

31. 'Hvert er þat dýra
er drepr fé manna
ok er járni allt
urit í kring?
horn hefir átta,
en höfuð ekki,
ok fylgja því margir mjök.
Heiðrekr konungr
hygg þû at gâtu.'

Heiðrekr svarar:

32. 'Góð er gâta þín
Gestr blindi,
getit er þeirrar:
húni man sjá vera
í hnottafli,
frekr ok flárr til fjár.'

þá mælti Gestr:
33. 'Hvert er þat dýra
er Dönum hlífir?
berr blóðugt bak,
en benjar fyri,
geirum mætir,
gefr líf sitt fram,
leggr við lófa
lík sitt guma.
Heiðrekr konungr
hygg þú at gátu.'
Heiðrekr svarar:
34. 'Góð er gáta þín
Gestr blindi,
getit er þeirrar:
skildir blika
í bardögum,
en verja þá er valda.'
þá mælti Gestr:
35. 'Hverjarru leikur
er líða lönd yfir
ok leika at muni margt?
hvítan skjöld þær
of vetr bera,
en svartan of sumar.
Heiðrekr konungr
hygg þú at gátu.'
Heiðrekr svarar:
36. 'Góð er gáta þín
Gestr blindi,
getit er þeirrar:
rjúpur kalla
rekka synir
fiðrvarðan fugl;
sortnar fiðr
á sumar tíma,
en bliknar um bjarnar nótt.'
þá mælti Gestr:
37. 'Hverjarru snótir
er syrgjandi ganga
at forvitni föður?
mörgum þær hafa
at meini orðit,
við þat sinn aldr ala.
Heiðrekr konungr
hygg þú at gátu.'
Heiðrekr svarar:
38. 'Góð er gáta þín
Gestr blindi,
getit er þeirrar:
Eldis brúðir
eitri blandnar
fara mörgum fyrir.'
þá mælti Gestr:
39. 'Hverjarru meyjar
er ganga margar saman
at forvitni föður?
hadda bleika hafa þær
inar hvítföldduðu
ok eigut verðir vera.
Heiðrekr konungr
hygg þú at gátu.'
Heiðrekr svarar:
40. 'Góð er gáta þín
Gestr blindi,
getit er þeirrar:
Gýmir hefir sér
getit dœttr
ráðsviðar við Rán;
bylgjur þær heita
ok bárur,
verr þeim vera enginn.'
þá mælti Gestr:
41. 'Hverjarru ekkjur
er allar ganga saman
at forvitni föður
sjaldan eru blíðar
við seggja lið
ok eigu í vindi vaka.

Heiðrekr konungr
hygg þû at gâtu.'

Heiðrekr svarar:

42. 'Góð er gâta þín
Gestr blindi,
getit er þeirrar:
öldur þat eru
Œgis dœttr,
þær lâta fallast fast.'

Þâ mælti Gestr:

43. 'Nóg var forðum
nösgâs vaxin
barngjörn sû er bar
bûtimbr saman;
blífðu henni
hâlms bitskâlmir,
þó lâ drykkjar
drynhraun yfir.
Heiðrekr konungr
hygg þû at gâtu.'

Heiðrekr svarar:

44. 'Góð er gâta þín
Gestr blindi,
getit er þeirrar:
âttir þû líta
andarfygli
eggjum sitja â;
numit var staðar
með nauts hausi,
en kjâlkar görðu kví.'

Þâ mælti Gestr:

45. 'Hverr er sjâ inn mikli
er mörgu ræðr,
sér til Heljar hâlfr?
höldum hann bergr,
en við svörð sakast,
ef hann hefir sér veltraustan vin.
Heiðrekr konungr
hygg þû at gâtu.'

Heiðrekr svarar:

46. 'Góð er gâta þín
Gestr blindi,
getit er þeirrar:
dugir akkeri
með digru togi
flotna skaut â sæ,
fleini þat hrífr
í fold niðr
ok horfir til Heljar svâ.'

Þâ mælti Gestr:

47. 'Hverjarru brûðir
er í brimskerin ganga
ok eigu eptir firði för?
harðan beð hafa
inar hvítfölduðu konur
ok leika í logni fátt.
Heiðrekr konungr
hygg þû at gâtu.'

Heiðrekr svarar:

48. 'Góð er gâta þín
Gestr blindi,
getit er þeirrar:
bârur ok brekar
ok boðar görvallir
leggjast loks â sker;
beðir eru þeirra
björg ok urðir,
en sâtt er sævar logn.'

Þâ mælti Gestr:

49. 'Sâk a sumri
sólbjörgum í
verðung vaka,
vilgi teiti;
drukku jarlar
öl þegjandi,
en œpandi
ölker stóðu.
Heiðrekr konungr
hygg þû at gâtu.'

Heiðrekr svarar:

50. 'Góð er gáta þín
Gestr blindi,
getit er þeirrar:
grísar þegjandi
giltu drukku,
en hon rítti af raun.'

þá mælti Gestr:

51. 'Hverr byggir há fjöll?
hverr fellr í djúpa dali?
hverr andalauss lifir?
hverr æva þegir?
Heiðrekr konungr
hygg þú at gátu.'

Heiðrekr svarar:

52. 'Góð er gáta þín
Gestr blindi,
getit er þeirrar:
hrafn byggir há fjöll,
dögg fellr í djúpa dali,
fiskr án anda
í flóði lifir,
en þjótandi foss
þegir aldregi.'

þá mælti Gestr:

53. 'Meyjar ek sá
moldu líkar,
váru þeim at beðjum björg,
svartar samar
ok sólviðir,
en þessar fegri
er fœða af sér.
Heiðrekr konungr
hygg þú at gátu.'

Heiðrekr svarar:

54. 'Góð er gáta þín
Gestr blindi,
getit er þeirrar:
í ösku fólgnar,
á arni fölnaðar
gatstú glœðr sjá.'

þá mælti Gestr:

55. 'Fjórir ganga,
fjórir hanga,
tveir veg vísa,
tveir hundum varða,
einn eptirdrattar'
ævidaga,
sá er jafnan
saurugr.
Heiðrekr konungr
hygg þú at gátu.'

Heiðrekr svarar:

56. 'Góð er gáta þín
Gestr blindi,
getit er þeirrar:
kýr er þat dýra
er þú knáttir sjá
fjórum ganga fótum,
fjórir hanga spenar,
en horn hana vörðu,
hali hékk at baki.'

þá mælti Gestr:

57. 'Sat ek á segli,
sá ek dauða menn
blóðshold bera
í björg viðar.
Heiðrekr konungr
hygg þú at gátu.'

Heiðrekr svarar:

58. 'Góð er gáta þín
Gestr blindi,
getit er þeirrar:
satstú á arni,
þar sástú val fljúga,
sá barr æðarfugl
sér í klóm.'

Þá mælti Gestr:

59. 'Hvat er þat undra
er ek úti sák
fyrir Dellings dyrum?
tíu hefir tungur,
tuttugu augu,
fjóra tigi fóta,
framlíðr sjá vættr.
Heiðrekr konungr
hygg þú at gátu.'

Heiðrekr svarar:

60. 'Vánum þykki mér þú nú
vitrari vera,
ef sá ert er segir,
er þú gautar
of giltu úti
þá er í garði gékk;
var sú þá sundruð
at vísirs ráði,
ok gékk hon með grísi níu.'

Þá mælti Gestr:

61. 'Hverirru þeir tveir
er til þings fara?
þrjár hafa þeir sjónir saman,
tíu fœtr ok
tagl eitt báðir
ok líða svá lönd yfir.
Heiðrekr konungr
hygg þú at gátu.'

Heiðrekr svarar:

62. 'Góð er gáta þín
Gestr blindi,
getit er þeirrar:
þat er Óðinn
þá er Sleipni ríðr fram.
eitt á hann auga,
en jór bæði,
dregr skeið fótum
drösull átta,
Yggr tveimr;
hestr á hala einn.'

Þá mælti Gestr:

63. 'Seg þú mér þat eina,
alls þú vera þykkir
hverjum kongi hyggnari;
hvat mælti Óðinn
í eyra Baldri
áðr hann var á bál borinn?'

Heiðrekr svarar:

64. 'Undr ok argskap
ok alla bleyði,
skí ok skrípi ein;
en engi veit þau orð þín
útan þú sjálfr
ill vættr ok örm.'

65. Brann skap konungi,
brá hann Tyrfingi
ok hugði at höggva Gest;
en hann viðbrást
í vals líki
ok forðaði svá fjörvi.

66. Leitaði undan
á ljóra valr,
en hilmir eptir hjó;
véli skar aptan
ok skemdi fjaðrar,
því berr hann stýfðan stert.

Fló Óðinn þá bort ok skildi svá með þeim.

# KRÂKUMÂL.

1. Hjuggu vêr með hjörvi.
hitt var ei fyrir löngu
er â Gautlandi gêngum
at grafvitnis morði,
þâ fêngu vêr Þóru,
þaðan hêtu mik firðar
þâ er ek lyngâl umlagðak
Loðbrók at því vígi,
stakk ek â storðar lykkju
stâli hjartra mâla.
2. Hjuggu vêr með hjörvi.
heldr var ek ungr þâ er skífðum
austr í Eyrasundi
undurn frekum vargi,
ok fótgulum fugli
fêngu vêr þar er sungu
við hâseymda hjâlma
hörð jârn mikils verðar,
allr var œgir sollinn,
óð ramn í valblóði.
3. Hjuggu vêr með hjörvi.
hâtt bârum þâ geira
er tvítugir töldumst
ok týr ruðum víða,
unnum âtta jarla
austr fyrir Dýnu mynni,
gera fêngum þâ gnóga
gisting at því vígi,
sveiti fêll í sollinn
sæ, týndi lið ævi.
4. Hjuggu vêr með hjörvi.
Heðins kvânar varð auðit
þâ er vêr Helsingja heimtum
til heimsala Ôðins;
lögðum upp í Îfu,
oddr nâði þâ bíta,
öll var unda gjâlfri
â sû roðin heitu,
grenjar brandr við brynjur,
benslídr klufu skildi.
5. Hjuggu vêr með hjörvi.
hygg ek engan þâ frýðu
âðr en â Hemlis hestum
Herrauðr í styr fêlli,
klýfr ei Egils öndrum
annarr jarlinn frægri
lyndar völl til lægis
â langskipum síðan,
sâ bar siklingr víða
snart fram í styr hjarta.
6. Hjuggu vêr með hjörvi.
herr kastaði skjöldum
þâ er rægagarr rendi[1]
ræstr at gumna brjóstum,
beit í Skarpaskerjum
skeribíldr at hjaldri,
roðinn var randar mâni
âðr Rafn konungr fêlli,
dreif or hölda hausum
heitr â brynjur sveiti.
7. Hjuggu vêr með hjörvi.
hâtt grenjuðu hrottar
âðr en â Ullarakri
Eysteinn konungr fêlli,
gêngu gulli fâðar
grundar vals at bröndum
rækyndill smaug rauðar
rítur at hjâlma móti,
svíra vín or sârum
sveif of hjarna kleifar.
8. Hjuggu vêr með hjörvi.
hafa gâtu þâ hrafnar

fyrir Einderis eyjum
œrna bráð at slíta,
fèngum fálu hestum
fullan verð at sinni,
illt var eins at gæta
með uppruna sólar,
strenghömlur sá ek stíga,
stakk málmr á skör hjálmi.
9. Hjuggu vèr með hjörvi.
báðum rendr í dreyra
þá er benþvara bendum
fyrir Borghundarhólmi,
hreggský slitu hringa,
hratt álmr af sèr málmi,
Vulnir fèll at vígi,
varat einn konungr meirri,
val rak vítt of strandir,
vargr fagnaði tafni.
10. Hjuggu vèr með hjörvi.
Hildr var sýnt í vexti
áðr Freyr konungr fèlli
í Flæmingja veldi,
náði blár at bíta
blóði smeltr í gyltan
Högna kufl at hjaldri
harðr bengrefill forðum,
mær grèt morgin skæru
mörg þá er tafn fèkkst vörgum.
11. Hjuggu vèr með hjörvi.
hundruðum frá ek liggja
á Eynefis öndrum
þar er Englanes heitir,
sigldu vèr til snerru
sex dœgr áðr lið fèlli,
áttum odda messu
við uppruna sólar,
varð fyrir várum sverðum
Valþjófr í styr hníga.
12. Hjuggu vèr með hjörvi
hrundi dögg af sverðum
brýn í Barðafirði
bleikan ná fyrir hauka,
umdi álmr þá er oddar
allhratt slitu skyrtur
at slíðrloga sennu
Svelnis hamri þæfðar,
rendi ormr til unda
eitrhvass drifinn sveita.
13. Hjuggu vèr með hjörvi,
hèldum Hlakkar tjöldum
hátt at Hildar leiki
fyrir Heðninga vági;
sjá knáttu þá seggir
er sundruðum skjöldu
at hræslína hjaldri
hjálm slitnaðan gotna;
varat sem bjarta brúði
í bing hjá sèr leggja.
14. Hjuggu vèr með hjörvi,
hörð kom hríð á skjöldu,
nár fèll niðr til jarðar
á Norðimbralandi,
varat um eina óttu
öldum þörf at frýja
Hildar leiks þar er hvassir
hjálmstofn bitu skjómar,
böðmána sá ek bresta,
brá því fíra lífi.
15. Hjuggu vèr með hjörvi.
Herþjófi varð auðit
í Suðreyjum sjálfum
sigrs á várum mönnum,
varð at randar regni
Rögnvaldr fyrr hníga,
sá kom hæstr of hölda
harmr at sverða gusti,
hvast kastaði hristir
hjálms strenglögar pálmi.
16. Hjuggu vèr með hjörvi,
hverr lá þverr of annan,

glaðr varð gera bróðir
getu við sóknar læti,
lét ei örn né ylgi
så er Írlandi stýrði
(mót varð målms ok ritar)
Marsteinn konungr fasta,
varð í Veðrafirði
valtafn gefit hrafni.

17. Hjuggu vér með hjörvi,
hundmarga så ek falla
morginstund fyrir meiði
menn at odda sennu,
syni mínum hneit snemma
slíðraþorn við hjarta,
Egill lét Agnar ræntan
úblauðan hal lífi,
glumdi geirr við Hamdis
grånserk, bliku merki.

18. Hjuggu vér með hjörvi,
baldorða så ek brytja
ekki smått fyrir úlfa
Endils niðja bröndum,
varat å Vikaskerði
sem vín konur bæri,
roðinn var Œgis asni
ófår í dyn geira,
skorin var Sköglar kåpa
at skjöldunga hjaldri.

19. Hjuggu vér með hjörvi,
håðum suðr at morni
leik fyrir Lindiseyri
við lofðunga þrenna;
får åtti því fagna
(féll margr í gin úlfi,
haukr sleit hold með vargi),
at hann heill þaðan kæmi;
Íra blóð í ægi
ærit féll um skæra.

20. Hjuggu vér með hjörvi,
hårfagran så ek hrökkva
meyjar dreng at morni
ok målvini ekkju,
varat sem varmar laugar
vínkers njórun bæri
oss í Ålasundi
åðr en Örn konungr félli,
varat sem unga ekkju
í öndugi kyssa.

21. Hjuggu vér með hjörvi,
hå sverð bitu skjöldu
þar er gullroðinn glumdi
geirr við Hildar næfri;
sjå mun í Önguls eyju
of aldr mega síðan,
hversu at lögðis leiki
lofðungar framgéngu;
roðinn var út fyrir eyri
år flugdreki såra.

22. Hjuggu vér með hjörvi.
hví sé drengr at feigri,
at hann í odda eli
öndurðr låtinn verði?
opt sýtir så ævi
er aldregi nístir,
illt kveða argan eggja
örum at sverða leiki,
hugblauðum kemr hvergi
hjarta sitt at gagni.

23. Hjuggu vér með hjörvi.
hitt tel ek jafnt at gangi
at samtogi sverða
sveinn í móti sveini;
hrökkvat þegn fyrir þegni,
þat var drengs aðal lengi;
æ skal åstvinr meyja
einharðr í dyn sverða.

24. Hjuggu vér með hjörvi.
hitt sýnist mér raunar,
at forlögum fylgjum,
får gengr of sköp Norna.

